Mr. O Olafsson 2

# ALDAMÓT

ÁTTUNDA ÁR

1898

RITSTJÓRI:

*FRIÐRIK J. BERGMANN*

*Vor trú er sigurinn, sem hefur sigrað heiminn.*
1. Jóh. 5, 4.

Gefið út af prestum hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi.

WINNIPEG
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJU LÖGBERGS
1898

# EFNI:

# Landskjálfta-ljóð.

Eftir

VALDIMAR BRIEM.

Tólf kvæði, er lúta að jarðskjálftanum 1896.

---

I.

„Ef drottinn byggir ekki húsið, þá erviða smiðirnir til einskis.“
Sálm. 127, 1.

Ég þurfti' að byggja mér bæ á ný,
sá bær skyldi lengi standa;
þar nýtt og gott skyldi efnið í
og öll skyldu húsin björt og hlý;
það alt átti vel að vanda.
Já, það þarf vel að vanda,
sem vel og lengi' á að standa.

Það hús átti' að reisa' á háum stað
und hlíðunum fagurgrænum.
Hið bezta grjót dró ég óspart að
og einnig hinn bezta við í það;

það búandi skyldi' í bænum.
Já, það þarf vel að vanda,
sem vel og lengi' á að standa.

Og verkafólk kom úr allri átt,
sem allra bezt var að finna.
Og veggirnir risu breiðir brátt
og bráðlega komst á þakið hátt,
því ljómandi vel gekk vinna.
Já, það þarf vel að vanda,
sem vel og lengi' á að standa.

Hið innra var fágað alt sem varð,
það ásjálegt vera skyldi;
þar sjá skyldi fagran sveitagarð,
þótt sæi' ég ei af því beinan arð,
ég alt saman vanda vildi.
Já, það þarf vel að vanda,
sem vel og lengi' á að standa.

Ef einhverstaðar sá einhvern blett,
þá óðara' að því var fundið;
ef alstaðar var ei alveg rétt,
þá út á það var sem fljótast sett,
og brátt var að bótum undið.
Já, það þarf vel að vanda,
sem vel og lengi' á að standa.

Og bærinn stóð þar und brekku hýr
og brosti gegn vegfaranda.
Að utan var hann og innan nýr,
hann orðinn reyndar var nokkuð dýr;

en honum var hugað að standa.
Já, það þarf vel að vanda,
sem vel og lengi' á að standa.

Ef drottinn byggir ei húsin há,
það hjálpar ei þau að vanda.
Í fyrstu hríð, er þeim hrynur á,
þau hrynja niður sem slegin strá,
ef guð vill þeim láta granda.
Hann þarf ei annað en anda
eða' einum fingri' að banda.

Hvort bygði guð þá ei húsin hér?
Jú, hann þau sannlega bygði.
Hann lengi hélt þeim í hendi sér,
en hann vildi líka sýna mér,
hvað mannlegur máttur dygði.
Fyrst veik reynast verk guðs handa,
þá vor munu trauðla standa.

Ef hér ég byggi mér hús á ný,
það hálfu skal betur vanda.
En tálvon er það að treysta því,
þó traustum búum vér húsum í,
að þau muni stöðug standa.
Alt rétt er að reyna að vanda; —
guð ræður, hvort það mun standa.

## II.

„Hvert það ríki, sem í sjálfu sér er sundurþykt, mun leggjast í auðn, og hvert hús mun þar yfir annað hrapa."
Lúk. 11, 17.

Það gott er veður og létt er loft
og lygnt er á djúpum sæ.
Þó æðir um landið stormur stór
og stríð er í sveit og bæ.

Á fjöllunum uppi' er ógnar-kyrð
og einmanalegt og hljótt.
Í bygðinni gengur á byltingum;
menn berjast þar dag og nótt.

Í dauðra bústöðum djúp er þögn,
þeir dánu þar hvíla' í ró.
En þeir, sem lifa, þeir láta eins
og löður á æstum sjó.

Á árunum þannig eitt sinn gekk,
það andaði flest svo milt.
Hjá fólkinu samt var þys og þras
og þjóðin var orðin trylt.

Þá aldinn þulur í stólinn steig
og sterklega brýndi raust;
hann vandaði hátt um hneyksli það
um héraðið alt sem braust.

Hann mintist á orðin meistarans,

sem margsinnis hafa rætst,
og eigi sízt á hans eigin borg,
er yfir gekk hörmung stærst.

,,Hvert ríki sjálfu sér sundurþykt" —
hann sagði það snjalt og hátt —
,,mun leggjast í auðn og hvert eitt hús
mun hrapa til grunna brátt."

En eigi sintu menn orðum þeim,
og áfram því sama gekk.
Þeir hugðu það vera hégómamál
að hlýða þeim gamla rekk.

Þá drottinn sjálfur í tauma tók,
það titraði fótskör hans.
Þá lægði deilur og hægði hríð,
það hljóðnaði' um bygðir lands.

Þar hvert yfir annað húsið féll
og hrundi sem fyrr var spáð.
En landið ei drottinn lagði' í auðn,
hann líknaði því af náð.

Ó, líknaðu, drottinn, landi' og þjóð
og lækkaðu jarðar-rót;
en stiltu þó einkum storminn þann,
sem stríður er þér á mót.

## III.

„Þetta skal ég gjöra: rífa niður hlöður mínar og byggja aðrar stærri, — — og þá vil ég segja við sálu mína: Þú hefur fengið mikinn forða til margra ára; hvíl þig nú, et þú og drekk og vert glöð. En guð sagði: Heimskingi, á þessari nóttu verður sál þín af þér heimtuð.“

Lúk. 12, 18.—20.

Sæll var sumardagur,
sólin blessuð skein;
gylti geislinn fagur
grund og bylgjurein.
Hægt í vestri sólin seig.
Senn var komið sólarlag,
samt var fólk á teig.

Úti' á grænni grundu
glatt á hjalla var.
Flestir allvel undu
iðju heyskapar.
Hey var þurkað þennan dag;
flestir gátu flutt sitt heim
fyrir sólarlag.

Sætið sat í röðum
sumum bændum hjá.
Hátt var líka' í hlöðum
heyið orðið þá.
Bundu menn og báru heim;
hækkaði við hverja ferð
heyaflinn í þeim.

Mikinn forða færði
flestum dagur sá.

Ei á barlóm bærði
búandmönnum hjá.
Sumir hugðu sitt við starf:
Heyskapur ef hepnast svo,
hlöður stækka þarf. —

Sólin rann í sæinn,
syrta fór að nótt;
út menn entu daginn,
alt varð kyrt og rótt.
Gengu menn til húsa heim.
Hestum var í haga slept,
hvíldar mál var þeim.

Gott til hvíldar hugðu
halir lúnir þá;
að sér neitt ei ugðu,
alt var kyrt að sjá;
kyrt var loft og kyrr var nótt.
Hví þá skyldi öllum ei
einnig verða rótt?

Sumir tóku sæti,
settust fljótt við skamt.
Enn á faraldsfæti
fólk var allmargt samt.
„Hvíl þig aftur, et og drekk", —
margur kvað við sjálfan sig,
svo til hvílu gekk.

Sumir fóru að sofa,

svefninn lukti brá;
gleymdu guð að lofa
gumar sumir þá.
Hvað þá muni hafa dreymt,
það er ekki unt að tjá;
eflaust það er gleymt.

Blessuð börnin smáu
byrgt sig höfðu rótt;
sætt á svæfli lágu,
sögðu: Góða nótt!
voru fljót að festa blund.
Dreymdi þau um líf og leik
ljúfa næturstund. —

Sveita-sumardagur
svo til enda leið.
Enn var heilla-hagur,
hulið var hvað beið.
Enn var lífsins gengi glatt.
„Ei er nótt til enda trygg",
orðtak það er satt,

Alt í einu dundi
ofsahvinur snar.
Hristist alt og hrundi,
hvað sem fyrir var.
Alt í eina bendu braust;
alt í svipan ofan reið,
er menn hugðu traust.

Gangur ný-umgenginn
grafinn lá í rúst;
undir varð þó enginn
ógurlegri þúst;
undan komust allir menn,

,,Hollur sá, sem hlífir,er,"
hér það reyndist enn.

## IV.

,,Alt fjallið skalf mjög." 2. Mós. 19, 18.
,,Jörðin skalf og bifaðist og fjallanna grundvöllur nötraði og hrærðist, því hann reiddist." Sálm. 18, 7(2. Sam.22,8).
,,Jörðin skalf og björgin klofnuðu." Matt. 27, 51.

Heyrðust brestir og brak,
heyrðist buldrandi gnýr
eins og brimhljóð við klettótta strönd
eða fallandi foss
eða feiknarlegt rok,
eða fellibyls æði' yfir lönd.

Skalf þá storðin sem strá,
brustu stóreflis-björg
og sér steyptu' yfir sléttlendin bleik.
Féllu húsin í hrönn
sem í hvassviðri lauf,
og þau hrundu sem spilaborg veik.

Það var niðmyrkt af nótt,
svo að nokkur ei sá,
hvernig nötraði' og titraði fold.
Nóttin byrgði þau býsn
sem hún blygðaðist sín,
og hún blæju dró svarta' yfir mold.

Þá skein glampandi glóð
eins og glæringar elds;
það var gneistaflug björgunum úr;
og það hrundi svo hratt
eins og haglélja-rót
eða hvolfdist úr loftinu skúr.

Allir vöknuðu við,
er sá voði skall á,
er sér værð höfðu tekið og ró.
Flýttu allir sér út, —
út í aldimma nótt,
hvergi óhulta vissu sig þó.

Hvaða ógn gengur á?
vissi enginn það fyrst,
sig menn áttuðu' ei þegar í stað.
„Er það dagurinn dóms,
sem nú dottinn er á?
Reiður drottinn er nú, eða hvað?"

Kveða klukkurnar við
sem þær kalli til dóms.
Er hann kominn þá, dagurinn sá? —
Nei, það hægist um hark,
nú það hljóðnar um stund.
Ætli hræringin liðin sé frá?

Nei, það ókyrð er enn;—
er það ókyrð í jörð?
eða er það í hjartanu' á mér?
Titrar hauður og hold
sérhvert hjartaslag við,
því það hvorttveggja samskonar er.

Er þá reiði guðs rétt
eigi rokin af enn?
eða ræð ég ei gátuna þá?
Nei, ég ræð ei þá rún,
sem oss rist er um það,
er hinn réttvísi leggur oss á?

Hristist feiknar-stórt fja.
meður ferlegum gný,

þegar forðum hann lögmálið gaf.
Einnig bifuðust björg
og þaubrustu sem gler,
þegar blóðið rann krossinum af.

þegar hauður og haf
tekur harðastan kipp
og það hrynur, þá minnumst vér á,
hvernig gnötraði grund,
þegar guðs sonur lést,
og að grafirnar opnuðust þá.

V.

„Abraham fór snemma á fætur þann sama morgun, og gekk þangað, er hann hafði staðið frammi fyrir drotni, og horfði til Sódóma og Gómorra og til héraðsins um kring og sá sig um.“ 1. Mós. 19, 27. 28.

„Nær þér sjáið viðurstygð eyðileggingarinnar standandi á á helgum stað, sem Daníel hefur spáð um“ — — Matt. 24, 15 (sbr. Dan. 9, 27).

„Hvort ætlið þér, að þeir átján, sem turninn í Sílóam féll yfir og varð að bana, hafi verið meira sekir en allir þeir, sem í Jerúsalem búa?“ Lúk. 13, 4.

Fagurt er á morgnana' að líta yfir láð,
ljómar morgunsólin og alt er geislum stráð.
Gullin blikar döggin í grænum haga tært,
glitrar alt svo fagurt og hreint og spegiltært.

það var þó einn morgun, að sólina' ekki sá,
svörtum mekki hulin var ljóssins festing blá;
svartir komu flókar í sólargeisla stað,
síðan komu hryðjur, er bættu lítt um það.

Lindin, sú er speglaði loftið tær og blá,
liðaðist í hlykkjum svo föl og öskugrá.

Úr dauða-hafi jarðar vall aurgrár eðju-leir,
og orðnar voru grundir sem dýjaflesja meyr.

Grátlegt var að líta' yfir grænar hlíðar þá,
ginu breiðar sprungur á mót oss til og frá.
Fagrar höfðu brekkur á brjóstið fengið sár,
björg þar víða lágu sem höfug stirðnuð tár.

Ömurlegt að horfa þá bygt var yfir ból,
bærinn, sá er nýlega hýrt skein móti sól,
allur lá í rústum sem róstugt moldarflag,
reisulegu húsin voru jarðföll nú í dag.

Öllu því, sem fyrr meir í röð og reglu var,
rótað hafði nóttin og fleygt því hér og þar;
margt þar eftir slaginn á tjá og tundri lá
til og frá í valnum, sem kannaður var þá.

Víða hafði orrusta verið þessa nótt,
vígstöðvarnar margar og stríð af kappi sótt.
Valköstunum hlaðið sást út um alla bygð,
eyðingar og rústa sá marga viðurstygð.

Sannlega þó alls engin Sódóma var hér;
Sílóams hér turninn að nýju fallinn er.
Ekki fyrir það samt, að engin væri sekt. —
Undarlegt er ráð guðs, en harðla merkilegt.

Eigin syni kærum ei hlífði drottinn hár,
hann þótt væri saklaus, þá leið hann dauðans fár
Eigin húsum sínum guð eigi þyrmdi nú,
eins á þeim og dundi hin mikla hryðjan sú.

Drottins húsið mæta, sem stóð á helgum stað,
stóð að vísu uppi, en rokna högg fékk það.
Bæði kvöld og morgun af sjálfsdáðum þar söng
sönginn yfir valnum hin helga líkaböng.

## VI.

„Fjöllin burtrunnu fyrir drotni." Dóm, 5, 5.
„Fjöllin stukku sem hrútar, hæðirnar sem unglömb."
Sálm. 114,4.

Tekur dansinn til á ný;
tröllaslagur aftur.
Það er jötnum enn þá í
ógurlegur kraftur.
Tindarnir hoppa, á hlaupum eru fjöll.
Dansa fyrir drotni hin tígulegu tröll.

Dunar hátt í hellunum,
hristast allar grundir.
Skelfing er af skellunum;
skruggan tekur undir.
Tindarnir hoppa, á hlaupum eru fjöll.
Dansa fyrir drotni hin tígulegu tröll.

Það er alt á fleygiför,
fjör er enn í landi.
Þetta mikla feikna-fjör
finnst oss óþolandi.
Tindarnir hoppa, á hlaupum eru fjöll.
Dansa fyrir drotni hin tígulegu tröll.

Mikið gengur alt af á,
illa hersing lætur.
Sígur ekki svefn á brá
sumum allar nætur.
Tindarnir hoppa, á hlaupum eru fjöll.
Dansa fyrir drotni hin tígulegu tröll.

Heyrið, jötnar, hættið við
heljar-tröllaslaginn,
þetta sífelt surg og ið

sumarlangan daginn.
Tindarnir hoppa, á hlaupum eru fjöll.
Dansa fyrir drotni hin tígulegu tröll.

Fer að grána gamanið,
glettur verða ramar.
Hrikaleikinn hættið við,
hann ei leikið framar.
Tindarnir hoppa, á hlaupum eru fjöll.
Dansa fyrir drotni hin tígulegu tröll.

Bezt er að hætta hverjum leik
hæst á meðan gengur.
Gamla móðir verður veik,
vari þetta lengur.
Hægið á dansinum, hamrar, björg og fjöll.
Flýið fyrir drotni, þér, forneskjuleg tröll.

## VII.

**„Lítið til fuglanna í loftinu. — — Skoðið akursins lilju-grös." Matt. 6, 26. 28.**

Sjá, litli fuglinn lyftir sér
í loftið fagurblátt.
Hann syngur ljúft með ljóssins her
og lofar guð sinn dátt.

Hin frjálsa, glaða fugla-hjörð
nú flögrar vítt um geim.
Vér, fjötraðir svo fast við jörð,
ei fylgja megum þeim.

Hinn léttfiðraði loftsins her
sér leikur til og frá.
En skelkaðir ei vitum vér,
hvert voðann flýja má.

Og liljugrösin ljúf og smá
í lautu hvíla rótt;
þau tifa' og sveigjast til og frá,
en taka sig þó fljótt.

Þótt rambi fjöll og ríði' á slig
og rymji björgum í,
þá blómin að eins beygja sig
og brosa' að öllu því. —

En hvernig stendur á því, að
það alt er laust við fár?
Er maðurinn ei meiri' en blað
og meiri' en fuglinn smár?

Ei jarðarinnar björtu blóm
né blíður loftsins her
sér hafa bakað harðan dóm,
það höfum aftur vér.

Er refsidómur drottins þá
það dauðans þunga bann?
Á guð þá sök því öllu á,
en ekki náttúran?

Af hennar völdum voði' er sá,
það veit hvert barnið smátt.
En hann, sem ráð á öllu á,
á einnig hennar mátt.

Það leikur alt í hendi hans
og hans það bending er,
já, bending til hins breyska manns
sem bezt að gá að sér.

En ástin hans er ávalt hlý

við alla sína hjörð.
Þeir litlu fuglar lýsa því
og litfríð blóm á jörð.

Hann fugla loftsins fæðir enn
og fóstrar blómin smá;
hvort annast hann þá eins ei menn,
þótt oft hann tyfti þá?

Hið sterka' er veikt, hið veika' er sterkt,
alt vilja guðs er háð;
í augum hans það alt er merkt
og alt hans falið náð.

## VIII.

„Refar hafa holur og fuglar himins skýli, en mannsins sonur hefur hvergi höfði sínu að að halla." Matt. 8, 20 (Lúk. 9, 58).

„Ef vér höfum fæðu og skýli, þá látum oss nægja."
1. Tím. 6, 8.

Oft er lífið allþungt stríð,
ægilegt að reyna.
Þetta sýnir þessi tíð;
þó skal ekki kveina.

Hafa refar hæli' og skjól,
himins fuglar skýli;
eigum vér nú ekkert ból,
öll eru rofin býli.

Vor er niður brotin borg,
burt er flúið mengi.
Þó skal ekki sút né sorg
sigra hrausta drengi.

Oft hefur drottins Ísrael
undan plágum flúið,
framar vonum farnast vel,
fólk í tjöldum búið.

Hvar nú skulu hér í kvöld
herbúðirnar standa?
Hér er völlur. Hvar eru tjöld?
Hús ei þarf að vanda.

Átti hvergi hvíldarstað
herrann að að snúa.
Vandara' oss er varla það,
vér hvar skulum búa.

Nú ei tíð að æðrast er,
ærið fátt þó höfum;
sleppa' að sinni verðum vér
vanans gömlu kröfum.

Þarna' er dúkur, þarna' er fjöl,
þarna' er allgóð spýta.
Ef ei gefst á öðru völ,
er það gott að nýta.

Sannarlega segja má
sé það lakur skúti,
að ei hann, ef harðnar á,
hollari sé en úti.

Hægt er að sleppa háska úr,
hrynji skálinn niður.
Verra' er, á ef skellur skúr,
skammur þá er friður.

Ef í búð ei unum vér
eða vera þorum, —

fagur salur hvelfist hér
höfðum yfir vorum.

Ei er hætt að hrynji sá,
hann mun traustur standa.
Ef hann hrynur, — eigi þá
íbúð þarf að vanda.

Ei er búð sú þröng né þungt
þar að draga anda;
feiknar-rúm er, ferskt og ungt
finst oss loft að vanda.

Mjög er fagur salur sá,
silkitjöldum skrýddur;
grænn er dúkur gólfi á,
glitvef dýrum prýddur.

Hvelfist yfir hvelfing blá,
hvelfdum undir boga
ljósahjálmi háum á
hundrað smáblys loga.

Geymslurúm má nota' í nauð,
nóg er rúmgott inni;
svo á mikinn enginn auð,
að þar rúm ei finni. —

Kveikja þarf upp úti eld
eftir vosbúð stranga;
ef hann rignir ekki' í kveld,
að vel það mun ganga. —

Döpur víst þó úti er,
ef svo stendur lengi.

Karlmannlegt og kalt er hér
knáa fyrir drengi.

Veik er sumum heilsan hjá.
Hvar mun þetta lenda?
Guð mun sjálfur geyma þá,
gefa sælan enda.

Þó að fari haust í hönd,
hvergi kvíðum vetri.
Guð mun efnin greiða vönd,
gefa tíðir betri.

Enginn veit, nær alt er nóg,
að því skyldum hyggja.
Bezt er að hafa' í hjarta ró,
hana' á drotni byggja.

Annast guð sinn Ísrael,
eftir voðagrandið
hann oss leiðir heila vel
heim í góða landið.

## IX.

„Guð! þú útskúfaðir oss, þú tvístraðir oss, og reiður varstu. Kom þú aftur til vor. Þú lézt jörðina nötra og rifna; lækna þú hennar sprungu, því hún skelfur."

Sálm. 60, 1. 2.

Heyrist voði' úr áttum öllum,
undir tekur hátt í fjöllum.
Dynur hlíð og duna grundir,
djúpt í jörðu tekur undir.
Hjörtun einnig anza því.

Alt af heyrist undir dynja,
öðruhverju björgin hrynja.
Þessar miklu þungu dunur
þykja mér sem jarðar stunur
hjartarótum hennar frá.

Alt af heyrist fleira' og fleira,
fýsir mig ei heyra meira.
Hvar mun þetta loksins lenda?
Lát það, drottinn, bráðum enda.
Kom þú aftur nú með náð.

Reiður, drottinn, enn þá ertu,
eigi lengur reiður vertu.
Þessum hryðjum láttu linna,
lít í náð til barna þinna.
Gef oss aftur frelsi' og frið.

Landið hristist, grundir gnötra,
gnúpar skjálfa, klettar nötra.
Hjartað berst og taugar titra,
tár í mörgum augum glitra.
Hrærist þá ei hjarta þitt?

Hrærði jörð þinn kynja-kraftur,
kyrri hana náð þín aftur.
Þú, sem stöðvar straum og vinda,
still þú einnig fjallatinda.
Friða þú og frelsa land.

Hjör þinn var svo heljar-þungur,
hjóst þú margar djúpar sprungur.
Græð þú sárin grænna hlíða,
græð þú sár, er hjörtum svíða,
góði meina græðarinn.

Þú, sem jörðu harða hrærðir,
heljar-miklu björgin færðir,
hrært þú getur hjörtun veiku,
höfga létt af brjósti smeyku.
Hrærðu þannig hjörtu vor.

Virstu, guð, vor hjörtu' að hræra,
hjörtun bljúg þér lát oss færa,
trúa, vona, biðja' og bíða
betri kjara, sælli tíða.
Hræring slíka hjá oss vek.

Sólargangur sífelt lækkar,
sólin þinnar líknar hækkar;
kyrrist jörð og kippum fækkar,
kviknar vonin, trúin stækkar.
Lof sé þér, minn góði guð!

X.

„Heimskinginn segir í sínu hjarta: Það er enginn guð til."
Sálm. 14, 1 (53, 1).

„Verið þar fyrir vakandi, því þér vitið ekki daginn né stundina."
Matt. 25, 13.

Í hjarta sínu heimskur maður segir:
„Ég held ei guð sé til, nei, það er frá."
En drottins verk hann daglega þó eygir,
hans dýrðar-undur mörg og stór og há.
Þú heimtar teikn;—þau tala á hverjum degi,
hvort trúir þú þá, vesall maður, eigi?

Hver hefur myndað heiminn allan forðum,
þá hnatta mergð og ótal sólna fjöld?
Hver heldur öllum heiminum í skorðum
og hjóli tímans stýrir öld af öld?

Hver nema guð? það enginn annar getur;
hann öllu þessu lög og takmörk setur.

Hver skekur jörð og hristir hamratinda
og hendir þrumum út um víðan geim?
Hver reisir hafið, sendir voða-vinda,
og veltir öldum, leikur sér að þeim?
það guði einum alt er fært að gera, —
og enginn guð er sagður til að vera!

þú, fávís maður, varstu' ei var við drottin
í voða þeim, er yfir dundi hér?
Sást þú ei þar hans mikla veldisvottinn,
og var það ekki teikn, sem nægði þér?
Hví sagðir þú, — er brest þú heyrðir háan:
,,Guð hjálpi mér!" og trúir þó ei á hann?—

En hvað er þessi heljarmikli voði
mót heimsins slitum, sem var fyrr um spáð:
Mun þetta vera þeirra fyrirboði?
Nei, það er lítið sýnishorn í bráð,
ein lítil skúr mót hörðum þrumuhríðum,
einn hægur blær mót fellibyljum stríðum.

Sú kemur tíð, að dómsins lúður dynur,
í dauðans ótta skelfur haf og land.
Sú kemur tíð, að hrapar alt og hrynur,
og háar borgir falla niður í sand.
þá verður eigi undan hægt að flýja
og eigi hægt að reisa bæi nýja.

Sú kemur tíð, að fósturlandið fríða,
er fyrr á öldum reis úr djúpum sjá,
í undirdjúpið aftur hverfur víða,
því alt fer þangað, sem það kemur frá.
Af eldi kviknað alt mun síðar brenna,
og öll mun jörð í glóðum sundur renna.

„En hvenær?“ spyr þú; það veit enginn, enginn,
ei utan guð, er dylur þess oss menn.
Það lokað er og lykillinn ei fenginn
að leyndardómi þeim er nokkrum enn.
En gætið yðar, ráð í tíma takið,
og teljið yðar daga, biðjið, vakið.

Þér kvartið um, að ei þér sofið getið
af ótta fyrir titringnum í jörð.
En það að vaka vel þó framar metið,
svo varbúnum ei mæti skelfing hörð.
Já, verið gætnir, vakið, skoðið haginn;
þér vitið ekki stundina né daginn.

## XI.

„Sannlega segi ég yður, að hvað þér gjörðuð við einn af þessum minstu bræðrum mínum, það hafið þér mér gjört.“
Matt. 25, 40.

„Hver sem tekur á móti þvílíku barni fyrir mína skuld, hann tekur á móti mér.“ Matt. 18, 5 (Lúk. 9, 48).

„Þessi fátæka ekkja hefur meira lagt í fjárhirzluna en allir hinir.“ Mark. 12, 43 (Lúk. 21, 3).

Svo ótal margt er orðið breytt:
ei að eins landið hér og hvar,
ei að eins hagur yfirleitt,
ei að eins bygðirnar.
Til skaða samt það alt ei er,
þess einnig gæta skyldum vér;
það hefur sumt til bóta breytst
og blessun margföld veitst.

Vér harðlæst ætlum hjörtun þrátt
og hyggjum fátt um kærleikann;
þau opin sjást nú upp á gátt
og ótæpt veitist hann.
Í myrkri bezt nú maður sér,

að margur góður drengur er.
Sá lykill fanst í landskjálftum,
sem lauk upp augunum.

Það drífa' að menn úr allri átt
og óspart leggja' á verkið hönd,
svo aftur rís upp bygðin brátt
og bætast meinin vönd.
Og klæðnað börnin fátæk fá
og fóstur jafnvel mörgum hjá.
Af barna-vögnum löng er lest,
slík lest ei fyrr hefur sést.

Frá öllum stéttum alt um land,
úr öllum sveitum „vítt og breitt"
að streymdi hjálp, að hefta grand,
af huga ljúfum veitt.
Og eyri sinn lét ekkjan snauð,
sem átti varla daglegt brauð.
Og barnið vildi vera með
að veita hjálparféð.

Og erlendis frá ótal manns
kom einnig hjálpin stór og smá.
Vor konungur síns kæra lands
af kærleik mintist þá.
Og landinn fyrir handan haf
af hluttekningu sízt ei gaf;
vér honum stöndum hjarta næst,
þótt hann oss búi fjærst.

Oss margt var byrlað beiskt og ramt;
vér biðjum guð að forða því.
Með gleði má þess minnast samt,
hvað mannástin var hlý.
Að guð á marga góða menn
vér getum séð af þessu enn,

En gleymum því þá ekki ört,
sem oss er vel til gjört.

Þótt gleymum vér, ei gleymir hann,
sem góðverk hvert er mikilsvert,
sem alt, er snertir aumstaddan,
sér álítur sé gert, —
sem blíður vitni bar um það,
að börn ef taka menn sér að,
þá sér þeir taki sjálfum mót
og sýni vinahót.

En blessuð einföld börnin smá,
þau biðja', að hræring komi' á ný,
í von um slíka vist að fá,
sem voru þau fyrr í.
Ei vita þau, hvers biðja ber, —
oss börnum eldri títt svo fer,
sem oft ei viljum þýðast það,
að þiggja betri stað.

Það oss er mjög til unaðar,
að úti' um gjörvöll kristin lönd
vér eigum bræður alstaðar
með örva líknar-hönd.
Í hjálparvon þó ei það er,
því ó að slíks ei þyrftum vér!
En oss það sýnir eina hjörð
og eitt guðs ríki' á jörð.

## XII.

„Ég stóð upp og gekk niður í dalinn, og sjá, þar stóð dýrðin drottins.“
Esek. 8, 28.

„Ef þú byrgir þitt auglit, þá skelkast þær; ef þú tekur þinn anda frá þeim, þá deyja þær og hverfa aftur í duftið. Þú útsendir þinn anda, þær skapast og þú endurnýjar mynd jarðarinnar.“
Sálm. 104, 29. 80.

„Fjöllin færast úr stað og hálsarnir riða, en mín miskunnsemi við þig skal ekki úr stað færast og minn friðarsáttmáli ekki raskast, segir drottinn, þinn miskunnari.“
Esaj. 54, 10.

Nú sól er upp runnin og sumar er bjart,
nú sigur er unninn, þótt stríð væri hart.
Nú dúr taka fjöllin af dansinum móð,
það dagaði' upp tröllin, sem ógnuðu þjóð.

Nú alkyrr er jörðin, hún orðin er stilt,
nú andar guðs hjörðin svo létt og svo milt;
það velt er af bjargi', er á brjósti' hennar lá,
og burtu velt fargi, sem hvíldi þar á.

Nú hlíðarnar glóa svo hýrar á brá
og holsárin gróa þeim brjóstunum á;
nú grundirnar ljóma svo glaðar á ný
og grasið í blóma vex dölunum í.

Nú lindirnar sitra með ljúflegum klið,
ei lengur þær titra með skjálfandi nið.
Þær loft spegla tærar og lausar við gróm
og ljóma svo skærar sem náttdöggvuð blóm.

Nú rústunum fækkar og rutt er þeim frá,
og risið, það hækkar nú býlunum á;

Í hásumar-blænum þau brosa við sól
und brekkunum grænum, þar friðsælt er skjól.

Nú létt er af hryðjum og hagléljaskúr,
og harðsnúnum viðjum er fólkið leyst úr.
Burt hræðslan er flúin og farin á braut,
í fögnuð nú snúin er hörmung og þraut.

Nú grædd eru sárin, þótt enn séu ör,
og afþerruð tárin og við lifnað fjör.
Það greiðst hefur hagur og glæðst hefur trú,
því gleðinnar dagur hjá mörgum er nú.

Og til er nú friður þars fyrrum var stríð,
það fljótt lagðist niður á mæðunnar tíð.
Sem vinir þeir finnast, sem vildu' ekki sjást,
og varla þess minnast þeir nú fyrir ást.

Það margt er að vísu, sem amar að enn,
ei alsæla prísa má dauðlega menn;
en léttara finst það hjá fólkinu nú
og fljótara vinst það með þolgæði' og trú.

Ef lýsingin fegri en ástandið er
og ununarlegri ég söguna ber,
þá er það af gleði' yfir unninni þraut,
því óttinn úr geði nú horfinn er braut. —

Vér göfgum þig, faðir, sem leystir þinn lýð,
og lofum þig glaðir á fagnaðartíð.
Þú jörðina kyrðir, sem titraði títt,
vor trúfasti hirðir, þitt auglit var blítt.

Ef auglit þitt felur þú, hræðist alt hold,
og hvað, sem ei elur þú, verður að mold.

Ef anda þinn sendir þú, yngist þín hjörð,
og óðara' en bendir þú, ný verður jörð.

Við fárrömu grandi, vor faðir, oss hlíf,
gef frið voru landi, og geym þú vort líf.
En einnig vér felum þér annara lönd;
alt annast svo vel um þín miskunnarhönd.

Þótt háfjöllin riði, ei hreyfist þín náð,
það haggar ei friði, sem þú hefur skráð;
þín miskunn ei færist og flyst ei úr stað,
þinn friður ei bærist hið minnsta við það.

# QUO VADIS?

—

FYRIRLESTUR

EFTIR

FRIÐRIK J. BERGMANN.

—

## I.

Gömul munnmælasaga úr fyrndinni segir, að postulinn Pétur hafi, skömmu áður en hann gjörði nafn drottins dýrðlegt með kvalafullum píslarvættisdauða í Rómaborg, þegar hann eitt sinn var á gangi fyrir utan borgina, séð svip nokkurn koma til móts við sig, sem hann í fyrstu ómögulega fékk skilið, hvað vera mundi. Svipurinn nálgast hann æ meir og meir, þangað til hann gengur úr skugga um, að þetta muni enginn annar vera en frelsarinn sjálfur, sem komi þarna til móts við hann. Hann á þá von á því, að frelsarinn muni ávarpa hann, en verður þess brátt var, að hann ætlar að ganga fram hjá honum, án þess að mæla nokkurt orð af munni. Hann kallar þá til hans og spyr: *Quo vadis, domine?* Hvert fer þú, herra? En þegar Pétur hefur ávarpað hann þannig, hverfur hann honum sýnum.

Ekki alls fyrir löngu kom út skáldsaga ein eftir pólskan höfund, *Henryk Sienkiewicz*, sem hann kallar *Quo vadis?* Bókin er stórmerkileg og talin af bókvitrum mönnum sannur gimsteinn í bókmentalegu tilliti, enda er höfundur hennar nú orðinn heimsfrægur maður

fyrir bragðið og skipar nú öndvegi hjá aldarinnar stærstu höfundum. Þrátt fyrir mikla lengd og hátt verð hefur skáldsaga þessi verið meira keypt og meira lesin en nokkur önnur bók þessi síðustu ár. Og þessar vinsældir hefur hún unnið sér af því hún þykir sannari og betur af hendi leyst frá sjónarmiði listarinnar en flestar aðrar skáldsögur, sem lýsa einhverjum atriðum mannkynssögunnar.

Bókin lýsir ástandinu í heiminum um það leyti, er hinn alræmdi Neró keisari sat að völdum. En af því Rómaborg var þungamiðja alls heimsins þá og þar var alt ilt og gott saman komið, sem einkendi lífið um þessar mundir, dregur höfundurinn upp mynd af lífinu í þessari miklu höfuðborg hins rómverska alheimsríkis og bregður þeirri mynd upp sem annarri skuggsjá fyrir augu lesendanna, svo þeir fá séð inn í hjarta aldarinnar og lesið huldustu hugsanir hennar. Myndin, sem vér sjáum, er mynd af Rómaborg á dögum Neró keisara, en um leið meistaraleg mynd af mannfélagsástandinu öllu í heiminum. Hann sýnir oss Rómaborg, en um leið sjáum vér alt, sem liggur fyrir utan Rómaborg. Höfundurinn leiðir lesendunum sláandi fyrir sjónir andlega ástandið í hinum mentaða heiðingja heimi, — munaðinn og nautnina annarsvegar, þreytuna og fyrirlitninguna fyrir lífinu hins vegar. Hann leiðir greinilega í ljós öll þau margvíslegu öfl mannlegrar spillingar, sem urðu þess valdandi, að mannfélagsbyggingin og heimsdrotnunin rómverska hrundi um sjálfa sig.

Að því leyti er myndin ákaflega myrk. Ég man ekki til, að nokkur bók hafi gjört myrkrið í mannlífinu eins þrungið af skelfing í mínum augum, — hið andlega svartnætti, sem lagst getur yfir jörðina og grúft yfir henni með svo miklum þunga eins og enginn dagur sé

nokkurntíma væntanlegur. Og ég man ekki til, að ég hafi nokkurntíma orðið eins hræddur við svipina, sem ferðast fram og aftur í þessu náttmyrkri, — mennirnir hafa aldrei orðið að öðrum eins ófreskjum í augum mínum, ég hef aldrei verið eins nærri því að trúa, að þeir geti orðið að reglulegum djöflum. Bókin getur gjört þann myrkfælinn, sem annars er það ekki, — myrkfælinn við hin djöfullegu öfl, sem til eru í manneðlinu, og gagntekinn af skelfingu út af þeim bölþrungnu örlögum, sem legið geta fyrir mönnunum, hve nær sem hið illa verður algjörlega ofaná.

En til allrar hamingju lýsir bókin ekki einungis þessu. Engin nótt er svo myrk, að ekki sjáist einhver stjarna. Og stjarnan bendir á ljósheim hinum megin, sem að lokum muni vinna sigur. Höfundurinn bendir þá líka á þá stjörnu, sem blikaði á þessum svartnættishimni. Og af því honum hefur tekist að láta myrkrið verða svo óumræðilega svart, tekst honum þeim mun betur að láta dýrð þessarar einstöku stjörnu í þessum ómælanlega og endalausa myrkurgeimi verða þeim mun guðdómlegri.

Þessi stjarna er trúin á frelsara heimsins og ljósið hennar lífsafl kristindómsins, sem samkvæmt guðlegri kærleiksráðstöfun birtist á andans himni, þegar næturmyrkrið var sem allra svartast.

Auðvirðilegasti þrællinn í húsum aðalsmannanna og auðkýfinganna, sem sofa á daginn, en velta sér í ofnautn á nóttunni, heyrir einhvern sér jafnauman nefna nafn mannkynsfrelsarans í einhverri hálfdimmri strætissmugu og segja frá því, hvernig hann lét líf sitt aumingjunum til hjálpræðis. Hann fer heim til sín með ljós svo bjart í hjarta sínu, að hann upp frá þeirri stund er langsælastur allra þeirra, sem á heimilinu eru. Samþjónarnir

sjá það. Húsbændurnir veita því eftirtekt. Hér er kominn nýr maður, sem ekki fer með svik, segir ekki ósatt, hefur ekki ljótan munnsöfnuð. það er gengið á hann, stundum með góðu, stundum með hörðu, að hann segi frá leyndarmáli sínu. En hann bíður hentugs tíma. þá trúir hann einhverjum öðrum fyrir leyndarmáli hjarta síns. Svo berst það eins og birta ljóssins berst, úr sálum aumingja þrælanna, sem nú eru ekki þrælar lengur, til barnanna, til móðurinnar, ef til vill til lífsþreytta aðalsmannsins sjálfs, sem hatar lífið og er sannfærður um, að tilveran sé ill, — og það beygir hjarta hans og sveigir huga hans inn á betri leiðir.

Jafnvel innanum spillinguna og skelfingarnar í keisarahöllinni sjálfri, þar sem enginn var óhræddur um eigið líf sitt, átti frelsarinn fleiri játendur en nokkur rendi grun í. þegar Páll postuli ritar söfnuðinum í Filippí úr fangelsinu í Rómaborg, segir hann eins og kunnugt er: „Yður heilsa allir heilagir, en einkum keisarans heimilismenn.“ Munu þá ekki Filippíborgarmenn hafa spurt sjálfa sig líkt og Pétur spurði, þegar hann sá frelsarann ganga inn í hina spiltu keisaraborg: „*Quo vadis, domine?* Hvert leggur drottinn leiðir sínar?“

Fjöldi af bókum hefur ritaður verið nú um margar aldir um sama efni. En að líkindum hefur aldrei neinum höfundi tekist eins vel og þeim, sem hér er um að ræða, að leiða öllum almenningi manna fyrir sjónir þetta mikilfenglega tímabil mannkynssögunnar og gjöra það ljóst og skiljanlegt. það var eitt hið þarfasta verk, sem unt var af hendi að inna. það er þá eigi unt að færa efunargjörnum og vantrúuðum nútíðarmönnum heim sanninn um hið ómótstæðilega afl kristindómsins, ef ekki með því að koma þeim í skilning um það, sem þá

skeði. Bókin er eitt af hinum gleðilegu teiknum tímanna og viðtakan, sem hún hefur fengið, ekki síður. Skilningur höfundarins á kristindóminum og þýðingu hans er eins glöggur og bezt má verða og lotning hans fyrir krafti trúarinnar óumræðilega djúp. Hér höfum vér því fyrir oss eitt af hinum fagnaðarríku teiknum í heimi nútíðarbókmentanna, sem bent var á í fyrirlestri, sem haldinn var á kirkjuþingi ekki alls fyrir löngu.*) Ásamt mörgum öðrum bókum, sem komið hafa fram á markað heimsbókmentanna síðan, er hún ljós sönnun þess, að það, sem þar var tekið fram, var ekki úr lausu lofti gripið.

II.

Þessi spurning— *quo vadis?* — gengur annars gegnum alla mannkynssöguna. Hvar leggur drottinn leiðir sínar? Ég fæ ekki betur séð en það sé hið eiginlega ætlunarverk hennar að svara þeirri spurningu. Hún segir frá leiðum drottins í lífi mannanna, — hvernig hann gengur út og inn, hvernig hann kemur og hvernig hann fer, hvernig hann fæðist og hvernig hann lifir og hvernig hann deyr í lífi þjóðanna og einstaklinganna.

Þér hafið eflaust veitt því eftirtekt, hve hátt hið illa hefur ætíð um sig í heiminum. Það ber oft og tíðum svo sem ekkert á öðru. Hugsið um þetta tímabil mannkynssögunnar. Hugsið um ástandið andlega í rómverska ríkinu á dögum Neró keisara, — veizlurnar, brennurnar, blóðsúthellingarnar, pyndingarnar, — sá, sem lifir í dag, veit ekki nema líf hans verði í höndum böðulsins áður næsti dagur rennur. Aldrei hafa líf manna og eignir verið í öðrum eins hershöndum og þá.

*) Teikn tímanna, Aldamót 1895,

Aldrei hefur verið meiri ástæða til að ætla, að hið illa væri gjörsamlega búið að fá yfirhönd en þá.

En einmitt þá, á þessari skelfingaröld, er afl hins góða að læsa sig úr einni mannssál og í aðra. Það hefur ekki hátt um sig, lætur eiginlega ekkert til sín heyra; aldarinnar spekingar vita ekkert um það; það auglýsir ekkert, hvert ferðum þess sé heitið, gengur þegjandi leið sína. Öll sterkustu öflin, sem vér þekkjum, eru þögul og hulin öll. Þyngdarlögmálið hefur ekki hátt um sig. Það gjörir ekki mikinn skarkala í heiminum. Þó heldur það himintunglunum í jafnvægi og spennir hinum sterku greipum sínum utanum alla hina líkamlegu tilveru. Eins rafurmagnið. Það gjörir ekki næsta mikið vart við sig. Þó gjörir það kraftaverk og á eftir að gjöra enn fleiri.

Á engu afli ber í rauninni jafnlítið og kristindóminum. Sannur kristindómur er aldrei háværr, og þó er hann stöðugt á ferðinni, sífelt starfandi, heldur aldrei kyrru fyrir. Alt lífið er á stöðugri rás. Og að því leyti fylgir hann hinu almenna lögmáli lífsins. Hann nemur aldrei staðar á miðri leið, sest aldrei í helgan stein; það kostar hann lífið. Hann gengur þegjandi inn til borgarinnar, og áður en nokkurn varir er hún á hans valdi.

Þegar hann er á framrás í lífi þjóðanna, — ekkert fagnaðarefni er annaðeins til og að fylgja honum á þeirri þögulu sigurför. Hann gengur mann frá manni með boðskap sinn, skilur eftir nýjar hugsanir hjá honum eins og auðugur maður skilur eftir einn gullpeninginn á fætur öðrum, þar sem hann ferðast. Og þessar nýju hugsanir, sem hann skilur eftir, brjótast um í sálu manns sins og bylta öllu til, svo alt verður nýtt og hann þekkir naumast sjálfan sig. Alt hið göfugasta hjá honum rís upp og gengur í þjónustu þessara nýju hugsana. Það, sem heillaði huga hans mest áður, verður nú ljótt

og þýðingarlaust. Það, sem heillar huga hans nú, er hið góða sjálft, lávarður sannleikans sjálfur, hann, sem gekk í kring og gjörði gott. Hann er nú að kalla á þennan einstakling eins og hann kallaði á þá Pétur og Jóhannes forðum. Svona gekk það til, þegar kristindómurinn ruddi sér til rúms í rómverska ríkinu. Svona hefur það gengið hvervetna, þar sem hann hefur komist til valda í lífi einhverrar þjóðar.

Þá er það ekki síður fagnaðarefni að veita því eftirtekt, hverjir það eru meðal þjóðanna, sem trúin á frelsara heimsins festir beztar rætur hjá. Það eru starfsmennirnir, þeir sem mest hafa að gjöra og mest verða á sig að leggja, þeir sem ákafastir og áhugamestir eru um að koma einhverju til leiðar í lífinu, menn, sem hafa fastar, ákveðnar stöður, vinna baki brotnu til að standa vel í þeim, og finna mest til ábyrgðarinnar, sem á þeim hvílir. Það eru þeir menn nokkurnveginn undantekningarlaust, sem kristindómurinn hefur fest beztar rætur hjá. Það eru með öðrum orðum nýtustu mennirnir, þeir, sem bera framfaralíf þjóðar sinnar á herðum sér, þeir, sem finna, hvílík ábyrgð á þeim hvílir þar sem um heill og velferð er að ræða, og ekki láta líf sitt lenda í hálfsjúku, aðgjörðalausu grufli. Aftur er hinum gjarnt til að láta hugann hneigjast frá kristindóminum, sem lítið hafa fyrir stafni, en horfa gruflandi út í bláinn, enga ákveðna stöðu hafa og lítið finna til þeirrar ábyrgðar, sem lífinu er samfara. Það er eins og þeim glepjist sjón og tilgangur lífsins og þýðing verði þeim óskiljanleg ráðgáta.

Og enn er það stórt og mikið fagnaðarefni að veita því eftirtekt, hvílíkt starfsfjör og hvílíkan mátt til öflugra framkvæmda kristindómurinn hefur gefið þjóðunum. Það er ekki lítið fagnaðarefni að geta bent á þá ó-

tvíræðu staðhöfn, að þær þjóðirnar, sem bezt hafa orðið kristnar, hafa afkastað langmestu í mannkynssögunni. Heiðingjaheimurinn er nú sögulaus og aðgjörðalaus heimur og myrdar einskonar dimt úthaf utanum hinn kristna heim, þar sem engin sigling á sér stað. Menning kristnu þjóðanna stendur í ákveðnu hlutfalli við kristindóm þeirra. Þær þjóðirnar, sem eignast hafa kristindóminn í sannastri mynd, eru líka langlengst komnar í menningarlegu tilliti. Þær þjóðirnar, sem minnsta rækt hafa lagt við kristindóminn, eru orðnar á eftir í siglingunni. Kristindómurinn hefur einhvern leyndardómsfullan mátt í sér fólginn til að gjöra mennina að dugandi mönnum. Heiðnin eða með öðrum orðum vantrúin lamar hið meðfædda starfsfjör mannsins og kennir honum smámsaman að hugsa sem svo: Til hvers er að þreytast og sveitast, þegar launin að lokum eru engin?

III.

Snúum nú huga vorum að voru eigin litla þjóðlífi. Þegar kristnin var leidd í lög í landinu árið 1000, voru ekki nema örfáir menn kristnir, heiðingjarnir að minsta kosti margfalt fleiri, og kristindómur þeirra fáu, sem við honum höfðu tekið, mjög svo ófullkominn. Kristniboðið, sem rekið hafði verið í landinu, hafði verið svo aumt sem mest mátti verða. Að líkindum hefur Friðrik biskup frá Saxlandi verið sá af kristniboðunum, sem bezt hefur skilið kristindóminn og lengst hefur verið kominn á leið í því að vera kristinn maður. En hann kunni ekki að mæla íslenzka tungu og hefur því að mjög litlu leyti getað gjört sig skiljanlegan. Hinir aðrir, sem kristni boðuðu á Íslandi, virðast mjög lítinn skilning hafa haft á kristinni trú, verið heiðnir í hjarta, þótt þeir fyrir rás viðburðanna hefðu látið skírast, af því sú sannfæring

hafði rutt sér til rúms, að heiðnin mundi vera komin á fallandi fót, en kristindómurinn verða framtíðarinnar trúarbrögð. Úrskurður þorgeirs Ljósvetningagoða er ekkert annað en bráðabirgðar-tillaga hyggins manns um að fólkið í landinu skuli hér eftir bera kristið nafn. Íslendingar skuli hér eftir heita kristin þjóð,—ef hin nýja trú beri sannleikann í skauti sínu, muni hún á sínum tíma bera sigur úr býtum. það var tilraun til að halda þjóðinni í skefjum, láta ekki deilurnar út af trúarbrögðunum verða að almennu borgarastríði í landinu. Vanalega vænta menn sér ekki góðs af öðru eins samkomulagi og þessu. Enda sýnir Sturlungaöldin, sem er baráttuöld hinna kristilegu og heiðinglegu hugmynda í landinu, á hve ótryggum grundvelli þetta samkomulag var byggt.

En þrátt fyrir svona óvænlega byrjun verður kristindómurinn á tiltölulega skömmum tíma algjörlega ofaná í lífi þjóðarinnar og þjóð vor ekki öllu lakar kristin þjóð en aðrar þjóðir á þeim tímum. Og þennan mátt hefur kristindómurinn til að læsa sig inn í hjörtun og rýma heiðninni út, þrátt fyrir það, hve aumlega hann var fluttur þjóðinni og hve ónýtt það kristniboð virðist hafa verið, sem rekið var í landinu.

Ég fæ ekki betur séð, en að hin fyrsta kirkjusaga Íslands sýni hið sigursæla afl kristindómsins eins vel og nokkurt annað atriði kirkjusögunnar. það var í sannleika eins mikið kraftaverk, að kristindómurinn skyldi geta beygt hina hrikalegu, en stórgáfuðu víkingslund og það, að honum tókst að sveigja anda Grikkja og Rómverja inn á sínar leiðir. það er ekkert síður eftirtektarvert, þegar íslenzku söguritararnir bera kveðju frá Njáli þorgeirssyni og þorkeli Mána og Halli af Síðu, en þegar postulinn Páll skilar kveðju frá heimilismönnum keis-

arans. Þegar drottinn sjálfur kemur til móts við oss út við yzta heimskaut, höfum vér engu síður en Pétur ástæðu til að spyrja með undrun og lotning: Quo vadis, domine? Leggur þú einnig hingað leiðir þínar, drottinn?

IV.

En svo verðum vér líka að muna eftir öðru. Saga kristindómsins er ekki saga tómra sigurvinninga. Vér mundum víst allir óska að svo væri. En vér megum aldrei gleyma því, að kirkjusagan er að miklu leyti harmasaga, — ein hin allra átakanlegasta harmasaga, sem mennirnir þekkja. Hún segir ekki einungis frá kristindóminum í framrás, heldur líka frá kristindóminum í afturför. Hún segir ekki einungis frá því, hvernig mennirnir falla honum í faðm, heldur einnig frá því, hvernig einstaklingar og þjóðfélög slíta sig úr faðmi hans, ýmist að hálfu leyti eða öllu. Kirkjusagan segir oss frá því, hvernig birtir til í löndunum við komu kristindómsins, og það er óumræðilega fagnaðarríkur kafli. En hún segir oss líka frá því, hvernig smámsaman dimmir hér og þar í kristilegu tilliti, og það er óumræðilega harmþrunginn kafli. Hvorttveggja hefur átt sér stað á undanförnum öldum. Hvorttveggja á sér stað svo að segja fyrir augum vorum þann dag í dag.

Látum huga vorn hvarfla til Litlu Asíu, hinna blómlegu stöðva kristindómsins í fornöld, þar sem trúin á frelsara heimsins fyrst breiddist út, þar sem postulinn Páll sáði og gróðursetti, en Jóhannes vökvaði og varði,— lands hinna sjö gullnu ljósastikna, þar sem frelsarinn var sjálfur á meðal sinna og hélt hinum sjö stjörnum safnaðanna í hendi sér. Hvað er nú orðið af hinum sjö borgum, sem bréfin dýrðlegu í Jóhannesar Opinberunar-

bók eru stýluð til? Hvað er nú orðið af kirkjunum, sem með gnæfandi turnum bentu fólkinu til himins?

Hvað er nú orðið af hinni gömlu og nafnfrægu höfuðborg Íóníu við fljótið Kaystros, — Efesus —, þar sem Páll hafði prédikað og grátið um þriggja ára tíma, Akvílas og Priskilla þjónað söfnuði drottins, Tímóteus barist gegn æfintýrum og endalausum ættartölum, Jóhannes, hinn heilagi guðfræðingur, flutti kærleikans kenningu með eld af himni í orðum sínum, unz bein hans hnigu í jörðu um leið og sól hinnar fyrstu aldar seig í æginn? Árið 1307 er hún lögð í eyði af tryltum og blóðþyrstum herskörum Múhameðstrúarmanna. Nú stendur á þeim stöðvum aumt og fátæklegt þorp, sem *Ajasoluk* heitir, og kemur fróðum mönnum saman um, að það sé dregið af hinu gríska auknefni Jóhannesar guðspjallamanns: *hagíos þeologos.* Sé það svo, munu það vera nokkurnveginn einu leifarnar af kristindóminum, sem þar eru eftir. Það má svo heita, að nöfn þessara frægu borga, þar sem heimsmenningin eitt sinn hafði reist sín göfugustu musteri, séu afmáð úr sögunni, kirkjurnar kristnu fyrir löngu hrundar til grunna. Nú þylur fólkið á þessum stöðum í „kóraninum" í stað þess að lesa guðspjallið dýrmæta, er sá lærisveinn, sem Jesús elskaði, skráði. Það nefnir nafn *Alla,* en ekki nafn Jesú Krists og myrkur grimmustu örlagatrúar hvílir yfir sálum þess.

Hvernig líður borginni, sem Konstantínus keisari hinn mikli bygði við Bosporus og gjörði að höfuðborg rómverska ríkisins, eftir að hann hafði með lögum ákveðið, að kristindómurinn skyldi vera hin opinberu trúarbrögð? Hvað er orðið af Soffíukirkjunni, þar sem Jóhannes Krysostomos (gullmunnur), ef til vill hinn mælskasti maður, sem nokkru sinni hefur talað frá

kristnum prédikunarstól, flutti náðarboðskapinn með svo guðlegum hita, að neistar hrutu af orðum hans, og af svo mikilli einurð, að hann talaði um þá Heródías, sem aftur væri farin að dansa, meinandi með því enga aðra en hina voldugu keisarafrú sjálfa? Kirkjan stendur þar að sönnu enn þá. En þar er enginn Jóhannes, sem prédikar, enginn kristinn söfnuður, sem biðst þar fyrir. þessi helgid ..ur drottins hefur ótal sinnum verið vanhelgaður og saurgaður og fótum troðinn. Hann hefur um margar aldir verið musteri Múhameðstrúarmanna, sem gjört hafa þessa blómlegu borg, þessa aðra höfuðborg kristninnar, að ræningjabæli,—að banvænni pestkveikju fyrir siðferði þjóðanna og líf.

Og Rómaborg, borgin eilífa við Tíberfljótið, sem allur heimurinn eitt sinn laut, ekki einungis á dögum hinnar heiðnu fornaldar, þegar hún hélt allri jarðarkringlunni í járngreipum með legiónum hermanna sinna, heldur miklu seinna, eftir að Gotar og Húnar og Vandalir höfðu traðkað á marmaranum hennar og brytjað niður hinar hraustu rómversku legíónir. þá reis hún aftur úr rústum og gjörðist höfuðborg heimsins í annað sinn, — andleg höfuðborg. Og aldrei sýndist hún auðugri og óttalegri en þegar hún hélt þrettán hundruð ára afmæli kristindómsins og klerkarnir rökuðu gulli pílagrímanna inn í fjárhirzlu hennar, án þess lengur að geta komið nokkurri tölu á þau óskaplegu auðæfi. Á meðan á því hátíðahaldi stóð kom páfinn, Bónifacíus áttundi, einn daginn fram fyrir manngrúann, er saman var kominn í borginni, í fullum páfaskrúða með hina þreföldu páfakrúnu á höfði og annan daginn í keisaraskikkju og með keisarakrúnu, táknandi þannig, að alt mannlegt fullveldi, bæði andlegt og veraldlegt, væri í höndum hans. En þegar sami páfinn þremur árum seinna var staddur í

## VIII.

Með þessa sjöföldu rökstuðning í huga spyr ég nú aftur: *Quo vadis?* Erum vér á lífsins eða dauðans leið? Væri ég ekki svívirðilegur hræsnari, ef ég færi að neita því, að vér Íslendingar værum fremur illa kristin þjóð? Vitaskuld, engin þjóð er sannarlega vel kristin í orðsins strangasta skilningi. Engin þjóð hefur enn náð takmarkinu, það er langt frá því. En á ófullkomnu máli mannanna tölum vér um vel kristna eða illa kristna þjóð eftir því, hvar hún er á leiðinni, hvort heldur framarlega eða aftarlega. Vér Íslendingar erum nú á yfirstandandi tíð að fjarlægjast takmarkið. Kristindómur þjóðar vorrar er í afturför. Það er ekki til neins að neita því. Og honum þarf ekki annað en fara aftur nógu lengi til þess hann deyi út. Það mundi fleira deyja út með honum. Með honum mundi vor íslenzka þjóð missa lífið sjálft. Það yrðu örlög vor nú, sem sjálfsagt hefðu orðið örlög vor í fornöld, ef kristindómurinn hefði ekki orðið oss til lífs. Sundrungar- og eyðileggingaröflin, sem heiðninni eru samfara, mundu smámsaman ráða íslenzku þjóðlífi bana. Þessi öfl eru vissulega orðin nógu öflug og afkastamikil meðal vor til þess að þeim sé veitt eftirtekt.

Hugsið um hina pólitisku baráttu þjóðar vorrar. Stjórnarbót hefur nú um langan aldur verið eina umhugsunarefnið, eina opinbera umræðuefnið,—stjórnarbót, eilíf, endalaus stjórnarbót. Alt, sem til hefur verið af gáfum og gjörvileik meðal vor, hefur þyrpst utan um þessa einu hugmynd. Hún á að vera sá töfrasproti, sem öllu má til leiðar koma, — sá Aladdíns lampi, sem ekki þarf nema að núa, til að fá allar óskir sínar uppfyltar. Ekki ætti skilningur þjóðarinnar að vera jafn-

þroskaður í neinu og í þeim efnum. En aldrei virðist skilningur hennar að hafa verið minni en nú. Aldrei hefur hún verið fjær því að vita, hvað hún vildi, en einmitt nú. Pólitisku flokkarnir eru orðnir nokkurnveginn eins margir og hrepparnir. Allir, sem eitthvað þykjast hafa að segja, vilja vera forsprakkar. þess vegna er enginn flokkur til og enginn flokksforingi. Hver höndin rífur niður fyrir annarri. Allir eru grunaðir um græsku. Alt lendir í einum endalausum ragnarökkurs-bardaga. þótt þjóð vor eigi nú ýmsa ágætismenn, sem hafa miklu gleggri sjón í þessum efnum en fjöldinn og láta stjórnast af einlægri föðurlandsást, eru þeir úthrópaðir sem örgustu landráðamenn og fósturjarðarféndur. þeir eru skoðaðir sem vargar í véum og öll viðleitni þeirra að koma stjórnmálum þjóðarinnar í heppilegra horf sem Efíaltesar-brögð.

Hvernig stendur nú á þessu? það stendur í beinu sambandi við kristindómsleysi þjóðarinnar. Um leið og kristindómurinn bilar og trúin kólnar, lamast og hverfur hinn siðferðislegi þróttur. þjóð, sem hættir að beygja sig fyrir guði almáttugum, hættir um leið að beygja sig fyrir pólitiskum leiðtogum. Um þá þjóð má segja eins og sagt var forðum: Sjáandi sjá þeir ekki, og heyrandi heyra þeir ekki né skilja. þegar kærleikurinn til guðs hverfur úr hjörtunum, er föðurlandsástin líka á förum. þá er ekkert eftir nema sjálfselskan og sérþóttinn. Félagslífið fellur í mola. Alt lendir í flokkadráttum, einræningsskap og sérvizku.

þess vegna mega allir íslenzkir stjórnmálamenn vita það, að viðreisn þjóðar vorrar er öldungis ómöguleg í veraldlegum efnum, nema því að eins að kristindómurinn rísi aftur við í hjarta hennar. Hún þarf andlega að endurfæðast, til að geta fengið þann siðferð-

islega þrótt, er hana nú öldungis skortir, til að veita framfaraspursmálum sínum heppilega úrlausn. Þegar svo og svo margir af pólitisku leiðtogunum beita fylgi sínu til að smáeyðileggja þann kristindóm, sem til er, leggja þeir í blindni sinni bezta bandamann sinn að velli. Það verður köld og daufleg framfaraöld, sem íslenzkt þjóðerni á fyrir hendi, þegar kristindómurinn er fluttur úr landi. Þegar úti er um hann, er úti um sjálfstæða íslenzka þjóð.

Þess vegna vil ég hrópa til allra íslenzkra framfaravina — og þeir eru nú eins og allir vita nokkuð margir —, hrópa eins hátt og mér er unt og eins lengi og ég framast má: Yðar framfaraglingur er tómur hégómi, yðar stjórnarbótarbrask verður heimskara og heimskara, nema því að eins, að kristindómurinn rísi aftur við og blási nýjum einingaranda í hjörtu þjóðarinnar.

Gamli Esóp var ekki Íslendingur eins og allir vita. Hann var sonur gamla Grikklands. En það var býsna margt líkt með Grikkjum og Íslendingum. Enda eiga sumar af dæmisögunum hans ljómandi vel við oss Íslendinga. Líking hans um föðurinn, sem á deyjanda degi kallaði þrætugjarna syni sína fyrir sig og fékk þeim stórt knippi af samanbundnum stöfum og bauð þeim að brjóta, kemur ósjálfrátt í hugann. Þeir reyndu allir, en þeim var það ekki unt. Þá bauð hann þeim að leysa stafina sundur, og þá brutu þeir þá alla eins og ekkert væri. Svona fer fyrir ykkur, sagði hann við þá. Ef þið látið band einingarinnar tengja ykkur saman, fær ekkert mannlegt afl bugað ykkur. En ef bandið brestur og hver höndin verður upp á móti annarri, brotnar líf ykkar eins og stafirnir og verður ónýtt.

Einingarband kristindómsins hefur losnað utan af miklum hluta þjóðar vorrar og sundrungaröflin eru að

brjóta sundurlausu stafina við hné sér daglega. Og þó eru stafirnir svo fáir og knippið svo lítið, þó það fengi að vera heilt. Ef þetta fær að halda áfram, eigum vér bráðum ekkert knippi, heldur hrúgu af brotnum stöfum, sem kveikt verður í og látin brenna.

Ætlunarverk íslenzku kirkjunnar er nú það, að tengja saman aftur eins marga af hinum lausu stöfum þjóðlífs vors og unt er, áður en þeir verða brotnir. Það er hún, sem á að sjá um, að knippið sé vel bundið.

Og vér látum það vera mjög fjarri oss að hugsa, að það geti ekki tekizt. Á bak við það, sem ég nú hefi verið að segja, stendur ekki neitt svartsýni eða nokkur örvænting, heldur þvert á móti hið mesta bjartsýni og hin öflugasta von. Ég er eigi svo bölblindur maður, að ég eigi viti, að bjart og fagurt veður getur orðið að morgni, þótt útlitið sé ískyggilegt í dag. Ég hefi talið upp hin dimmu teikn, sem ég sé á lofti, svo vér allir mættum sjá þau og sannfærast um þau. Dimm teikn fyrir framan oss hafa oft orðið til þess, að heitar bænir hafa stigið upp að hásæti hins almáttuga kærleika um breyting á slíkum teiknum til hins betra. Og hann hefur heyrt þær bænir og notað mennina sjálfa til að breyta dimmum og ægilegum teiknum í önnur björt og blessuð.

Ég endurtek það, sem ég sagði áður. Látum hvern mann á meðal vor, sem á eitt mustarðskorn af trú í eigu sinni, — íslenzka presta og íslenzka leikmenn, — biðja og segja: Gjör mig að verkfæri í hendi þinni, drottinn, svo að illa kristin þjóð, sem ég elska eins og lífið í brjóstinu á mér, megi á sínum tíma verða vel kristin þjóð og njóta þeirrar blessunar, sem því fylgir!

## IX.

Eitt þurfum vér að varast eins og heitan eldinn, en

það eru ólukku afsakanirnar, sem nú eru tíðar. Hvað sem um er talað og að er fundið, þótt sannleikur þess ætti að vera hverjum manni með heilbrigða skynsemi deginum ljósari, — ætíð skulu ótal afsakanir vera á reiðum höndum og allar vélar röklistarinnar settar í gang, til að sannfæra sjálfa sig og aðra um, að þetta geti nú ómögulega öðruvísi verið en það er. Mikið dæmalaust eru slíkar afsakanir fyrirlitlegar og óhafandi. Fyrirlitlegastar verða þær þó, þar sem um kirkjuleg vankvæði er að ræða, þegar þær koma frá prestum og kirkjulegum leiðtogum. þegar þeir fara að hefja rödd sína í hvert skifti, sem eitthvert vekjandi orð er talað og sýnt fram á hið bága kirkjulega ástand eins og það er, þá er skörin vissulega komin upp í bekkinn. því það er svo ráð fyrir gjört, að í hverri ræðu, sem flutt er, sé sýnt meira og minna fram á hið öfuga og ranga í siðferðislegu lífi mannanna og augu tilheyrendanna opnuð fyrir brestum og löstum og siðferðislegum göllum, er alstaðar eiga sér stað í öllum mannfélögum. Og þegar söfnuðirnir taka slíkum áminningum með stöðugum afsökunum og segja: Vér erum nú allir breyskir, freistingarnar á allar hliðar og ótal ástæður, sem gjöra það býsna ervitt að yfirbuga þær, svo það er þýðingarlítið að vera að tala um þetta og gjöra það svona ljótt og skelfing syndsamlegt; vér verðum nú líklega allir eins og vér höfum verið, hvað sem sagt er, — þegar svona er talað í söfnuðinum, finst hverjum alvarlega hugsandi presti, að slíkt tal beri vott um sofandi samvizku, siðferðislegt hirðuleysi og andlegan dauða. Og það er von. En ber það þá ekki vott um nákvæmlega þetta sama, þegar það kemur frá prestunum sjálfum? Eru þeir þá ekki að hafa það fyrir öðrum, sem þeim þykir mjög vítavert í fari þeirra. Engir menn ættu að vera fljótari til að kannast við hin kirkjulegu

mein en prestarnir. Fyrst og fremst ætti samvizka þeirra að vera svo langt um betur vakandi en annarra. Og þar næst ættu þeir manna bezt að vita, hve hættulegt það er og syndsamlegt um leið, að breiða ofan á það, sem samvizkan segir manni satt að vera.

---

Ég byrjaði með kristilegri munnmælasögu og nú ætla ég að enda með annarri.

Abgarus, konungur í Edessa við Evfratfljótið, lá veikur og var þungt haldinn. Þá bárust honum fregnir af kraftaverkum Jesú og gjörði hann jafnskjótt sendimenn á fund hans og bað hann að koma sem skjótast til Edessa og gefa sér heilsu sína aftur eins og hann hefði gefið svo mörgum öðrum; virðist konungurinn hafa gjört sér beztu vonir um, að þessi bæn hans yrði heyrð. En frelsarinn sagði hinum útlenda sendimanni, að konungurinn yrði að bíða, þangað til verk hans væri fullkomnað hér á jörðunni og líf hans á enda. Þá skyldi hann senda einn af lærisveinum sínum til að lækna líkama hans og frelsa sálu hans. En Abgarus sendi aftur á fund hans og bað hann að gefa sér mynd sína. En engum málara tókst að ná hinum guðdómlegu andlitsdráttum, ekki einu sinni hinum heilaga Lúkasi. Þá þrýsti Jesús sjálfur mynd sinni á dúk og sendi til Edessa. Og þar sem nú borgin Edessa átti þessa nákvæmu og dásamlegu mynd af frelsaranum, var hún eftir þetta öldungis ósigrandi. Jafnvel hinn voldugi Persakonungur fékk eigi unnið svig á borginni, af því hún átti þennan verndarengil, þar sem mynd frelsarans var.

Hið ytra er munnmæli, hið innra sannleikur. Sú borg, sem á mynd frelsarans, gefst aldrei upp fyrir óvinum sínum; hún er ósigrandi. Sú þjóð, sem sendir til

frelsarans í mótlæti sínu, fær myndina hans þrýsta á svitadúkinn sinn eins og konungurinn í Edessa. Og svitadúkur einnar þjóðar er þjóðlífsstarfið alt, hið kirkjulega og borgaralega, sem hún vefur öll sín tár og hjartaslög inní. Ef hún leyfir frelsaranum að þrýsta mynd sinni á þann dúk og geymir hana þar, hefur hún ekkert að óttast, hversu lítil og fámenn sem hún er. Hún vinnur þá sigur í baráttunni gegn óvinum sínum. En hve nær sem myndin hverfur og máist af, verður hún heillum horfin og þess er þá ekki langt að bíða, að hún falli í hendur Persanna.

Þér, íslenzkir prestar og íslenzkir leikmenn, sem trúið á nafn mannkynsfrelsarans! Hann kallar til vor allra og segir: Rísið upp og þrýstið mynd minni í hjarta þjóðarinnar og á svitadúkinn hennar, svo hún fái að lifa og verða ósigrandi.

Þegar Pétur forðum spurði svip frelsarans, sem hann mætti fyrir utan borgina: *Quo vadis, domine?* — hvert fer þú, herra?—fékk hann ekkert svar. En hann sá svipinn halda áfram og inní borgina. Og þegar ég lít upp til hans í dag og segi með Pétri: *Quo vadis, domine?* — ert þú að yfirgefa oss, herra?—fæ ég heldur ekkert svar. En ég sé í anda segl í fjarlægð úti á hafinu og undir seglinu snekkju á innsigling og í stafni snekkjunnar sjálfan hann.

Og þá sýn læt ég mér nægja.



# Ræðan hennar móður hans.

Þýdd saga eftir Ian Maclaren.

---

Hann var göfuglyndur piltur og reynslulausa einfeldnin frá prestaskólanum enn þá ósnortin. Hann kom á mánudaginn var á prestssetrið í fríkirkjusöfnuðinum með fjögur vagnhlöss af húsmunum og móðursystur sína, sem var aldraður kvenmaður, er aldrei hafði gifst. Í þrjá daga ráfaði hann úr einu herbergi í annað í heilabrotum út af búskapnum og gaf ýmsar bendingar, sem tekið var við með gletnisfullri fyrirlitning; svo lokaði hann sig inni í lestrarherberginu sínu, til að semja stórkostlegu ræðuna sína, og móðursystir hans gekk á tánum. Við máltíðirnar á föstudaginn gaf hann í skyn, að fyrir sitt leyti hefði sig helzt langað til að flytja sem óbrotnasta ræðu, og það mundi hann líka hafa gjört, ef hann hefði verið prívatmaður, en af því hann hefði fengið verðlaun af opinberu fé, ætti þjóðin von á stórkostlegri ræðu. Hann ætlaði að vera gætinn og hreint ekki framur, en sjálfs sín vegna gæti hann ekki annað en lýst ástandinu í heimi guðfræðislegra hugsana og hann mætti til með að koma með eina eða tvær tilvitnanir úr Ewald.

Móðursystir hans var guðhrædd kona; hún hafði þessi traustu tök á sannleikanum og þessa viðkvæmu, en

dulu trú, er tilsamans gjöra skozka guðsóttann svo fagran. Það kom vandræðasvipur á hana. Meðan presturinn var að tala, svona unglingslega ánægður með sjálfan sig, hvarflaði hugur hennar inn í herbergi, þar sem þau höfðu bæði staðið fyrir fimm árum við dánarbeð móður hans.

Hann var frá sér af harmi þann dag og rúmið skalf af ekkanum hans, því hann var einkasonur móður sinnar og föðurlaus og móðir hans var nú að kveðja hann, hugrökk og trúföst fram í andlátið.

„Gráttu ekki svona, Jón, og láttu ekki hjartað þitt springa, því það er guðs vilji, og hann er ætíð beztur.“

„Hérna er úrið mitt og keðjan“, og hún lagði það við hlið sonar síns, en hann gat ekki snert það og vildi ekki lyfta upp höfðinu; — „þegar þú finnur keðjuna um hálsinn á þér, minnir það þig á faðminn hennar móður þinnar.“

„Þú ætlar ekki að gleyma mér, Jón, ég veit það vel, og ég skal aldrei gleyma þér. Ég hefi elskað þig hér og ég skal elska þig hinum megin. Það skal engin stund líða, án þess ég biðji fyrir þér, og þá veit ég betur, um hvað ég á að biðja, en meðan ég var hér, svo þú mátt ekki vera svona skelfing sorgbitinn.“

Þá fálmaði hún eftir höfðinu á honum og strauk hendinni yfir það einu sinni enn, en hann gat hvorki litið upp né mælt orð af munni.

„Gáttu í fótspor frelsarans, og ef hann vill leggja krossinn sinn á herðar þér, mátt þú ekki færast undan, því hann ber ætíð þyngri endann sjálfur. Hann hefur leitt móður þína öll þessi ár, og verið mitt eitt og alt, síðan hann faðir þinn dó, og hann mun styðja mig fram í andlátið. Hann verður með þér líka, Jón, og ég verð ætíð að hugsa um þig. Þú bregst mér ekki,“ og aum-

ingja kalda höndin hennar, sem hafði hjúkrað honum alla æfi hans, varð þyngri á höfðinu á honum.

En hann gat ekkert sagt og það dró snögglega af röddinni hennar.

„Ég get ekki séð þig núna, Jón, en ég veit, að þú ert þarna og ég á einungis eina ósk eftir. Ef guð skyldi kalla þig til að verða prestur, mátt þú ekki neita því, og fyrsta daginn, sem þú prédikar í þinni eigin kirkju, talaðu þá gott orð fyrir frelsara þinn, og ég heyri til þín daginn þann, Jón, þó þú sjáir mig ekki, og þá skal ég verða ánægð."

Einu augnabliki seinna hvíslaði hún: „Bið þú nú fyrir mér," og hann hljóðaði upp: „Móðir mín, móðir mín!"

Það var fullkomin bæn og ekki hægt að biðja son Maríu betur.

„Jón," sagði móðursystir hans, „móðir þín er nú hjá guði," og hann sá dauðann í fyrsta sinni, en hann var fagur og fullur þess friðar, sem æðri er öllum skilningi.

Fimm ár voru liðin, full af hugsunum og striti, og móðursystir hans var að hugsa um, hvort hann myndi þessa síðustu bæn, eða hvort hún hefði farið fram hjá honum í sorginni.

„Hvað ert þú að hugsa um, móðursystir mín? Ertu hrædd við guðfræðina mína?"

„Ónei, Jón. Það er ekki það, drengur, því ég veit, að þú munt tala samkvæmt trú þinni, án þess að óttast nokkurn mann," — og hún efaði sig.

„Láttu það koma, móðursystir; þú ert eina móðirin m[illegible] núna, eins og þú veizt," og presturinn vafði handleggnum utan um hana, „og um leið sú bezta, fallegasta og inndælasta móðursystir, sem nokkur maður hefur átt."

Fyrir innan sjálfsálit unga námsmannsins var góður drengur með heilbrigt hjarta.

„Fyrirverður þú þig ekki, Jón, að gjöra gys að gömlu kerlingarskari? — En það er ekki til neins að skjalla mig. Ég þekki þig of vel;“ og þegar hún gáði að, hverjum hann var líkur, fyltust augun alt í einu.

„Hvað gengur að þér, móðursystir? Ætlar þú ekki að segja mér það?“

„Þú mátt ekki reiðast mér, Jón; en ég er að hugsa um sunnudaginn; því ég hef einlægt síðan þú varst kallaður til *Drumtochty* verið að biðja, að það yrði heilladagur og ég fengi að sjá drenginn minn koma til fólksins síns með fegurð drottins yfir sér, eins og stendur í gamla spádóminum: „Hversu fagrir eru fætur þess sendiboða á fjöllunum, sem fagnaðartíðindin flytur, sem friðinn kunngjörir,“ og svo hætti hún aftur.

„Haltu áfram, móðursystir, haltu áfram,“ hvíslaði hann; „segðu alt, sem þér er í huga.“

„Það er ekki fyrir mig, einfalda gamla konu, sem enga þekking hef fyrir utan biblíuna og barnalærdóminn, að ætla að kenna þér, og það er ekki fyrir það, að ég sé hrædd við nýju skoðanirnar þínar eða um trúna þína, því ég man ætíð eftir því, að það eru margir hlutir, sem guðs andi á eftir að kenna, og ég veit það vel, að sá maður, sem fylgir frelsara sínum, villist aldrei í neinum skógi. En það er fólkið, sem ég er hrædd um, Jón, sauðahópurinn, sem drottinn hefur fengið þér til að gefa fóður í sinn stað.“

Hún gat ekki séð framan í hann, en hún fann, að hann þrýsti ofur hægt utan um höndina hennar og hún fékk meiri kjark.

„Þú verður að muna það, drengurinn minn, að það er hvorki gáfað né lært fólk eins og þú ert, heldur bara

blátt áfram bændafólk, hver með sína freisting, og sárlega þjáð af áhyggjum þessa heims. Það þarf ljóslega hugsuð orð til að hugga hjörtu þess og til að sýna því leið eilífs lífs. Þú segir það, sem rétt er, ég efast ekkert um það, og allir verða ánægðir með þig; en, góði drengurinn minn, vertu viss um, að þú komir með gott orð fyrir frelsara þinn."

Presturinn varð náfölur og höndin hné niður. Hann stóð snögglega á fætur og gekk fram að dyrunum, en um leið og hann gekk út, gaf hann móðursystur sinni þetta talandi augnatillit, sem einungis þeim fer á milli, er staðið hafa saman í sorg. Sonurinn hafði ekki gleymt bæn móður sinnar.

Garðinum kring um prestssetrið hallar til vesturs; og þegar presturinn var að ganga fram og aftur á þessum litla ferhyrnda bala, sem furutrén stóðu á verði í kring um, var sólin að síga bak við hnjúkana. Dökkleitum skýjabólstrum tók að hlaða saman undir kvöldið, og hótuðu þeir að skyggja á sólsetrið, sem var fegursta sjónin, er nokkurn tíma bar fyrir augu fólksins í Drumtochty og sannarlegt náðarmeðal fyrir hvert hjarta í dalnum með ofur litla tilfinning. En sólin hafði hrundið skýjunum til beggja hliða og helti dýrð sinni gegnum þau og hlóð ljósbylgjunum kring um sig um leið og hún gekk þessa skínandi braut gegn um hlið vestursins. Presturinn nám staðar fyrir þessari sýn, andlit hans laugaðist gulllegri dýrð, og svo rann gullsliturinn fyrir augum hans yfir í logandi rautt og hið rauða faldaðist lifrauðu og grænu. Slíkri náttúrudýrð getur ekki hönd neins málara náð, né neitt mannlegt ímyndunarafl. Honum fanst einhver dýrðlingur hafa sigrihrósandi haldið innreið sína gegn um hliðið inn í borgina himnesku, fágaður blóði lambsins, og kvöldroðinn frá æfi móður

hans lagðist hátíðlega yfir sálu hans. Síðasti votturinn um sólsetrið var horfinn af hnjúkunum, þegar presturinn gekk inn, og andlit hans var eins og þess, sem séð hefur sýn. Hann bað móðursystur sýna að hafa kvöldbænirnar um hönd með vinnukonunni, því hann vildi fá að vera einn í lestrarherberginu sínu.

Það var ánægjulegt herbergi á daginn með glugga til suðurs, og gegn um hann gat presturinn séð rósirnar leggjast upp að rúðunum og smáapalda með fram gangstígnum í garðinum; það var líka gluggi til vesturs, svo hann gat horft á hvern dag deyja. Það var þægilegt herbergi núna, þegar búið var að draga gluggatjöldin fyrir og ljósið frá lampanum lagði á bækurnar, sem hann unni hugástum og sögðu hann ávalt velkominn. Hann hafði raðað þessum dýrkeyptu fjársjóðum frá námsárunum í dálítinn bókaskáp og hafði nú hugsað gott til þeirrar óviðjafnanlegu ánægju, að eyða kvöldinu með því að lesa hitt og þetta. En bækurnar hurfu honum úr huga, þegar honum varð litið á ræðuna, er lá þar sem birtan frá lampanum var sterkust og beið síns dóms. Hann hafði lokið við síðustu blaðsíðuna himinglaður og flutt hana út við suðurgluggann og hepnast það svo vel, að hann undraðist yfir sjálfum sér. Hann vonaði samt, að hann yrði aldrei drambsamur, og yrði ekki kallaður til Edinborgar fyrstu tvö árin að minsta kosti. Og nú tók hann blöðin upp óttasleginn. Þessa skáldlegu byrjun með dæmum úr mannkynssögunni, þetta yfirlit yfir nýja heimspeki með sláandi tilvitnunum, þessa skorinorðu ádeilu á gamaldags skoðanir fann hann að honum var ómögulegt að flytja. Því tilheyrendurnir voru horfnir og að einn inn eftir með þreytulegt, en síungt andlit og angurblíð augu, sem mændu óþreyjufull á hann. Tvisvar vöðlaði hann ræðunni sam-

an í hendi sér og sneri sér að eldinum, sem móðursystir hans hafði kynt, og tvisvar iðraðist hann og slétti úr henni. Hvað annað gat hann haft að bjóða fólki nú? En þá heyrði hann gegn um kyrðina í herberginu rödd: „Tala þú gott orð fyrir frelsara þinn!“

Næsta augnablik kraup hann fyrir framan eldstæðið og rak mikla verkið sitt, sem koma átti Drumtochty sókn til að skjálfa, inní miðjan rauða logann; hálfbrosandi og hálfgrátandi horfði hann á áhrifamiklu orðin: „gyðinglegar umbúðir“ engjast saman og hverfa. Þegar seinasta svarta flygsan hvarf honum, mændi sama andlitið á hann aftur, en í þetta sinn voru yndislegu mórauðu augun full af friði.

Það var ekkert snildarverk, heldur viðvaningssamsetningur eftir ungling, sem lítið var að sér og lítið þekti heiminn. Að líkindum hefði ræðan gjört hvorki ilt né gott, en hann hafði gjört sitt bezta, og hann bar það fram sem aðra kærleiksfórn, og ég ímynda mér, að ekkert í mannlegu lífi sé guði eins dýrmætt, hvorki fögur orð né fræg verk, og fórnir kærleikans.

Tunglsljósið streymdi inn í svefnherbergið hans með silfurtærri birtu og honum fanst, að móðir hans væri hjá honum. Rúmið hans var tjaldað hvítum reflum og stóð þarna eins og vofa; hann mundi, að móðir hans hafði kropið við hlið þess á hverju kvöldi og beðið fyrir honum. Hann er nú drengur aftur og biður „faðir vor“; svo kallar hann aftur: „móðir mín, móðir mín!“ og ómræðileg vellíðun gagntekur hjarta hans.

Bænin hans morguninn eftir var mjög stutt, en á eftir stóð hann við gluggann dálitla stund, og þegar hann sneri sér við, sagði móðursystir hans:

„Þú verður búinn með ræðuna þína, og hún verður þess verð, að eftir henni sé tekið.“

„Hvernig veiztu það?“

En hún að eins brosti. „Ég heyrði, að þú varst á bæn.“

þegar hann lokaði lestrarherberginu sínu að sér þennan laugardagsmorgun, gekk móðursystir hans inn í herbergið sitt uppi á loftinu, og hann vissi, að hún fór þangað til að biðja fyrir honum.

Stundu seinna var hann á gangi fram og aftur í garðinum í svo æstum hugsunum, að hann marði með fætinum rós, sem lá á stígnum, og þá sá hún andlit hans alt í einu verða bjartara; hann flýtti sér inn í húsið, en tíndi fyrst nokkur eilífðarblóm. Um kvöldið fann hún þau ofaná ræðunni hans.

Tveim stundum seinna — því enn þá var hún á bæn og verði, jafn-trúföst við móður og son — sá hún hann koma út og ráfa í garðinum í glöðu skapi. Mörðu rósina tók hann upp og stakk henni í frakkann sinn; hann losaði um fiðrildi, sem fast hafði orðið í vef, og grúfði sig niður í blómstrandi ilmvið. þá skildi hún, að hjarta hans var fult af kærleika, og var þess fullviss, að alt mundi ganga vel að morgni.

þegar klukkan tók að hringja, reis presturinn upp af knjám sér og gekk inn í herbergi móðursystur sinnar til að láta hana skrýða sig, því það var samningur á milli þeirra.

Hempan hans lá þar breidd út, úr svörtu ljómandi silki, en hann settist ráðalaus niður.

„Móðursystir mín, hvað eigum við til bragðs að taka? Ég hef gleymt spöðunum.“

„En ég hef ekki gleymt þeim, Jón, og hér eru sex pör, búin til með mínum eigin höndum, og sittu nú kyrr meðan ég bind um hálsinn á drengnum mínum.“

þegar hún var búin að hagræða þeim og hann var til að fara, urðu þau alt í einu undur alvarleg.

„Kystu mig, móðursystir!“

„Fyrir hana móður þína, og hennar guð sé með þér.“ Og svo gekk hann gegnum garðinn fram hjá ilmviðnum og inn í kirkjuna; þar beið alt kirkjufólkið í Drumtochty, sem komist gat úr rúminu, og helmingurinn af ríkiskirkjusöfnuðinum með öndina í hálsinum.

Ég sat hjá móðursystur hans í prestskonusætinu og ég mun ætíð verða þakklátur fyrir, að ég var við þá guðsþjónustu. Þegar vetrarríkið spennir dalinn greipum, legg ég á stað í ferðalög og um mína daga hef ég veitt mörgum guðrækinsathöfnum eftirtekt. Ég hef verið í Tjaldbúðinni hans Spurgeons og séð fólk eitt augnablikið grátandi, en annað hlæjandi; ég hef heyrt til prestsins Liddon í Sankti Páls kirkjunni, og ómurinn af hans háu, hreinu rödd hljómar mér enn í eyrum: „Vakna þú, vakna þú; íklæð þig styrk þínum, Síonsborg!“ Ég hef verið við hámessu í Sankti Péturs kirkjunni og staðið í hálfrökkrinu í dómkirkjunni í Flórens, þar sem faðir Agostinó með þrumurödd afhjúpaði spillingu nútímans. En aldrei hef ég skilið ósýnilega heiminn eins vel og þennan dag í fríkirkjunni í Drumtochty.

Það er ekki unt að gjöra sér grein fyrir andlegum áhrifum; þau eru að mestu leyti eins og loftið. En hér hjálpuðu ýms atvik til. Manni fór undir eins að þykja vænt um þennan unga prest, þegar hann við fyrstu guðsþjónustuna sína lét syngja annan sálminn, því það sýndi, að hjarta hans var fult sonarlegri lotningu, og fjöldi viðstaddra tók þegar að blessa hann í hjarta sínu. Enginn skozkur maður getur nokkurn tíma sungið

„Guð vorra feðra, vertu æ
guð vor, sem þeirra erum börn“

með óhrærðu hjarta. Ég var þess þegar fullviss, að presturinn geymdi göfugar tilfinningar í brjósti, er hann

huldi andlit sitt og þagði, eftir að hafa hert sig upp og reynt að taka undir. Hann varð ekki minni maður í áliti voru, þó dálítill óstyrkur væri á honum, og tveir eða þrír gamlir menn, sem höfðu grunað prestinn um sjálfbirgingsskap, gáfu honum hjörtu sín, þegar honum tipaðist í faðir-vori og hann gleymdi tveimur bænunum. En vér vissum, að það var enginn óstyrkur, sem kom honum til að þagna í tíu sekúndur, þegar hann hafði beðið fyrir ekkjum og munaðarleysingjum, og í þögninni, sem þannig féll á, var andi drottins yfir oss. Æskan var honum meðmæli, af því hann var látlaus, því allar mæðurnar höfðu komið með orðlausa bæn um, að aumingja piltinum mætti farast vel fyrsta sunnudaginn, af því hann væri að eins tuttugu og fjögra. Ræðutexta get ég aldrei munað og orð úr ræðum ekki heldur; en efnið var Jesús Kristur. Og áður en hann hafði talað í fimm mínútur var ég, sem stend fyrir utan kreddur og kirkjur, sannfærður um, að Jesús Kristur væri nálægur. Presturinn hvarf oss sjónum, en það reis upp myndin af honum frá Nazaret, sem heitast elskar hverja mannlega sál, og auglit hans var fult angurblíðri þolinmæði, eins og á myndinni af meistaranum eftir Sartó í Boðunarkirkjunni; og hann rétti út hendur sínar til gamla fólksins og litlu barnanna eins og hann gjörði í Galíleu fyrir dauða sinn. Rödd hans hefði getað heyrst á hverju augnabliki, eins og ég hef ímyndað mér hana á einverustundum mínum við vetrareldinn eða þegar ég hef verið einmana á fjöllum uppi, — mild, lág og laðandi, ómandi eins og hljóðfærasláttur í instu fylgsnum hjartans: „Komið til mín......og ég mun gefa yður hvíld.“

Um leið og þögn kom fyrir í ræðunni leit ég fram eftir kirkjunni og sá, að hitt fólkið var ekki síður heillað. Donald Menzies hafði fyrir löngu verið hrifinn upp í

þriðja himin og heyrt orð, sem ekki er leyfilegt að tala. Campbell, sem sat í gæzlumannssætinu aftast, hafði lokað augum sínum og var að biðjast fyrir. Konurnar tárfeldu í kyrrþey og harðneskjan í andlitum karlmannanna var orðin mildari og blíðari, eins og þegar geislar kvöldsólarinnar leika um fjallagnípu.

En það, sem mig lengst mun reka minni til, var að sjá Margrétu Howe. Andlit hennar var hvítt eins og dauðinn og fallegu gráu augun hennar skinu gegnum táraskýin, svo ég varð var við glampann, þar sem ég sat í prestskonusætinu. Hún var að hugsa um Gunnlaug og hún var nú búin að gefa prestinum hjarta sitt.

Öldungarnir réttu prestinum höndina hver á fætur öðrum í skrúðhúsinu; og þeir voru guðhræddustu mennirnir í dalnum, þó þeir væru óbrotnir bændur og fremur ófríðir; enginn talaði orð nema Burnbrae.

„Ég varð nærri því af með jörðina mína fyrir fríkirkjuna, og ég mundi hafa unnið það til að vera hér í kirkjunni í dag, að verða af með tíu.“

Donald gekk heim með mér, en sagði einungis:

„Maður nokkur var sendur af guði; hann hét Jóhannes.“*) Heima við bæinn bætti hann við: „Vinur brúðgumans gleðst mjög við rödd brúðgumans.“

Undir ilmviðnum fyrir innan hliðið beið kona ein.

„Ég heiti Margrét Howe og er konan hans Vilhjálms Howe í Whinnie Knowe. Einkasonur minn ætlaði að verða prestur, en guð kallaði hann til sín fyrir nærri ári síðan. Þegar þér fluttuð fagnaðarboðskapinn um Jesúm í dag, heyrði ég röddina hans og ég fékk ást á yður. Ég hef heyrt, að þér eigið enga móður á jörðunni og ég á engan son; og mig langaði til að segja við yður,

*) Á ensku er Jóhannes og Jón sama nafnið.

að ef yður langaði nokkurn tíma til að tala við nokkra konu eins og það væri hún móðir yðar, skylduð þér koma til Whinnie Knowe, og það skal verða mér ein af huggunarstundum drottins.

Móðursystir hans gat hvergi fundið hann nema í lestrarherberginu, og þegar hann leit á hana, skalf vörin hans, því hjartað var stungið af sárri hugarkvöl.

„Móðursystir, ó, að hún hefði ekki þurft að sjá þennan dag og bænir hennar hefðu verið heyrðar!“

En móðursystir hans fleygði sér um hálsinn á honum.

„Vertu ekki hugsjúkur, drengurinn minn, og ekki trúarlítill. Móðir þín hefur heyrt hvert orð og er ánægð, því þú gjörðir þetta í hennar minningu, og þetta var ræðan hennar móður þinnar.“

---

# Ambátt drottins.

Eftir MATTHÍAS JOCHUMSSON.

---

„Sjá, ég em ambátt drottins!“ Lúk. 1, 38.

Í eyrum heyrir óminn hið unga, hreina sprund,
er engils heyrði hljóminn, og hugsar langa stund;
af gleði hlaut að gráta af gæzku skaparans,
og jafnan sama játa: „Sjá, ég er ambátt hans.“

Hvað merkja mun sú kveðja, ó, mildi drottinn hár?
Vill guð mig svo mjög gleðja? eða geymir þetta tár?
Ei skipan guðs má skilja, svo skamt er auga manns;
en víst ég hef þann vilja, að vera þerna hans.

Í honum hlýt ég hvíla, er hefur mig svo kætt,
og efast ei né víla, þótt eitthvað mót sé stætt;
ég tek í böli' og blíðu við boði guðs til manns,
sem hæfir þeli þýðu og þernu skaparans.

Og sæi' ég sendiboða þá sömu koma braut,
og dýrri' en dagsins roða hann djásn mér legði' í skaut:
ég mundi höfuð hneigja, því herrans skil ei veg,
og bljúg og hrærð mig beygja, því barnkind guðs er ég.

Og sjái' ég sorgarboða í sal minn ganga inn,
sem birti böl og voða, svo brynni tár á kinn;

og skyldi þiggja' og þegja hinn þunga raunaveg,
og eins og áður segja, því ambátt drottins er.

Og líði væna vorið, en vetur komi' í garð,
og sjái' ég burtu borið mitt bú og sumararð,
og veröld verði að gleyma, hvar vist ég telji m
ég á þar ávalt heima sem ambátt drottins er.

Ef öðlingsættir ginna og aðalsblóð í mér,
María skal mig minna, að mjúklynd sé sem ber.
Hvað stoðar djásnið dýra og demantsteina hér,
ef skrúðann vantar skíra, sem skaparans þernu ber?

Og þó ég hljóti' að þreyja, sem þerna sitja lágt,
og þiggja margt og þegja og þola' og eiga bágt:
í allri eymd og hættum þann innri vott ég ber:
af háum em ég ættum, því ambátt guðs ég er.

Svo lengi lífs sem dvel ég og lifir fjör í æð,
mig forsjón þinni fel ég, minn faðir, guð í hæð!
En líf þá lyktað hefur, mér leifð sé minning sú:
„Í guði sætan sefur hans signuð þerna trú.‘

# Bindindi.

Eftir Jón Bjarnason.

Prédikan flutt í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg á fyrsta sunnudag í aðventu (28. Nóv.) 1897.

(Guðspjall dagsins: Matt. 21, 1—9, og pistill dagsins: Róm. 13, 11—14.)

Inn á ársþing kirkjufélags vors, það er haldið var síðastliðið sumar, kom nokkurskonar áskoran eða beiðni frá hinu alkunna og vítt útbreidda „kristilega kvenfélagi til stuðnings bindindi" (*Women's Christian Temperance Union*) um það, að kirkjuþingið mælti með því, að prestar safnaða vorra vekti athygli almennings á bindindismálinu í prédikunum sínum á þessum degi, fjórða sunnudegi í Nóvembermánuði. Kirkjuþingið samþykti, að þessi áskoran skyldi tekin til greina. Og samkvæmt þeirri ályktan hef ég í þetta skifti ásett mér að tala um þetta sérstaka efni, bindindismálið, í ljósi kristindómsopinberunarinnar.

En það er til í kirkju vorri önnur ályktan, miklu miklu eldri, um það, hvað vera skuli aðalefnið í prédikunum þeim, sem kennimenn safnaðanna flytja fólki á þessum degi. Því dagurinn í dag er kirkjulegur merkisdagur, sem stendur að nokkru leyti alveg einn í sinni röð á meðal allra drottinsdaganna á árinu. Í

dag er fyrsti sunnudagur í aðventu, og með þeim sunnudegi byrjar kirkjuárið. Vér erum þannig nú í tímanum staddir á nýársdegi, hinum kirkjulega nýársdegi. „Sjá, konungur þinn kemur til þín hógvær" — segir í guðspjalli þessa dags. Konungur kristninnar, drottinn vor Jesús Kristur, kemur hógvær, svo yfirlætislaust og lítilmótlega, að fólk veitir honum iðulega enga eftirtekt. Og hinn kirkjulegi nýársdagur, sem tilsettur hefur verið til endurminningar um drottin til vor komanda eða um komu guðs ríkis hingað inn í syndugan og sorgum hlaðinn mannheiminn, — hann kemur einn árshringinn eftir annan með sömu hógværðar- eða auðmýktar-einkennunum. Menn veita honum svo undur litla eftirtekt. Menn muna yfirhöfuð að tala ekki eftir honum fyrr en hann er kominn og þeir við guðsþjónusturnar í kirkjunum eru á það mintir, að nýtt kirkjuár sé þá að ganga í garð. Og þegar þessi samþykt var gjörð á kirkjuþingi voru í sumar, sem leið, að prédikað skyldi þennan dag, seinasta sunnudaginn í Nóvember, út af bindindismálinu, þá mundi að líkindum enginn af oss kirkjuþingsmönnunum eftir því, að aðventan og kirkjuárið byrjar einmitt þennan sama sunnudag. Þegar ég fyrst gætti að þessu, hafði ég sterka tilhneiging til, að því er sjálfan mig snerti, að leiða kirkjuþingsályktanina fram hjá mér á þessum degi, en minnast heldur bindindismálsins í prédikan einhvern annan sunnudag. En er ég fór að virða fyrir mér hinar gömlu fastákveðnu biblíulexíur dagsins, pistilinn og guðspjallið fyrir fyrsta aðventusunnudaginn, þá sá ég, að í báðum þeim guðs orðs köflum er boðskapur, sem mjög er náskyldur bindindishugmyndinni í kristilegum skilningi, og að það gæti

því að engu leyti komið í bága við hið gamla fastákveðna prógramm fyrir þennan kirkjulega merkisdag, þó að þetta sérstaka efni, bindindismálið, væri nú dregið fram í prédikaninni.

Ég ætla fyrst að leiða athygli yðar allra, tilheyrendur mínir, að nokkru, sem stendur í guðspjallinu. Um leið og frelsarinn býður hinum tveim lærisveinum að fara til þorpsins Betfage og sækja þangað hin tvö dýr, sem hann þurfti á að halda til innreiðarinnar í Jerúsalem, þá tekur hann þetta fram: ,,En segi einhver nokkuð til yðar, þá segið, að herra ykkar þurfi þeirra við, og þá mun hann jafnsnart láta þau laus.'' Hin konunglega, en jafnframt hógværa og lítilmótlega innreið Jesú til Jerúsalemsborgar forðum fám dögum áður en hann kastaði sér út í píslirnar og krossfestingdauðann jarteiknar æfinlega fyrir kristnum lýð hina andlegu komu hans til kristins safnaðar, eða, sem er hið sama, uppfylling þessara bænarorða í faðir-vorinu: ,,Til komi þitt ríki!'' Æfinlega, þegar hann kemur, æfinlega, þegar boðskapurinn guðlegi útgengur til syn[illegible] ugra manna um það, að hann sé á ferðinni, til þe[illegible] komandi með sína náð, frelsanina og sáluhjálpina, fylgir þeirri komu eða þeim boðskap heilög, guðleg krafa til allra um það, að þeir verði að láta svo og svo mikið laust við hann, sleppa því, slíta það frá sér, kasta því burt. Því að öðrum kosti fái þeir ekki notið komu hans, ekki þegið þá frelsan, sem hann hefur meðferðis, ekki glaðst af náðinni hans og fagnaðarboðskapnum hans, ekki í neinni alvöru þakkað fyrir þá blessan, sem hann komandi réttir að ósjálfbjarga syndugum mönnum hér á jörðinni. Frelsarinn gekk út frá því eins og nokkru sjálfsögðu, að ösnunni og

ösnufolanum myndi af eigendunum verða slept við hina tvo útsendu lærisveina óðar en þeir fengi að vita, að hann, herrann þeirra og meistari, þyrfti þeirra við. Og hann gekk út frá því sem sjálfsögðu fyrir þá sök, alveg vafalaust, að hann vissi, að líka þeir, eigendur dýranna, trúðu á hann, höfðu líka í hjartans alvöru gjörst hans lærisveinar. Allir slíkir eru æfinlega við því búnir, að verða að láta alt það laust við hann, sem honum þóknast af þeim að heimta. Það, sem við þetta sérstaka tækifæri var heimtað í hans nafni sem hjálparmeðal við innreiðina í Jerúsalem, er vitanlega reglulegasta smáræði. En þetta smáræði verður að stóratriði, þegar þess er gætt, að það jarteiknar sérhvað eina, bæði stórt og smátt, sem drottinn heimtar af oss mönnunum að látið sé við hann laust sem skilyrði fyrir því, að ríkið hans fái til vor komið eða vér út af komu þess fáum notið hinnar frelsandi náðar hans. En sérstaklega verður smáræðið að stóratriði, þegar um það er hugsað, að sumir gjöra svo stórt númer úr jafnvel hinum smæstu sjálfsafneitunarkröfum, sem til þeirra koma úr kristindómsins átt, að þeir út af þeim einum láta til æfiloka fyrirberast fyrir utan dyrnar á guðs ríki, eða láta þær kröfur, þótt þeir einu sinni hafi átt þar heima, verða til þess að gjöra vist sína þar ómögulega og koma sér til þess að leita þaðan útgöngu.

Þegar þú, maður, neitar drotni þínum um að láta laust við hann eitthvert smáræði, sem hann af þér heimtar, fórna einhverri smáfórn, sem þú ert beðinn um í hans nafni, þá er það æfinlega hið alvarlegasta stóratriði; því það getur hvenær sem vill þýtt það, að þú sért að útiloka þig úr guðs ríki, eða hindra útbreiðslu þess með hinni frelsandi náð guðs og sáluhjálp-

inni til annarra manna. Vér lesum um lærisveina drottins til forna í sögunni um hinn mikla yfirnáttúrlega fiskidrátt: „Þeir yfirgáfu alt og fylgdu honum“ (Lúk. 5, 11). Það var stóratriði. En vér lesum líka um forherðinguna, sem kom fram í sinni ægilegu fylling hjá höfðingjum Gyðinga og meginþorra Jerúsalemsbúa eftir að Jesús hafði lokið innreið sinni til hinnar helgu borgar. Og um þá forherðing og þá hræðilegu eyðilegging fyrir land og lýð, sem þar með fylgdi, spáir Jesús grátandi við þessa sömu innreið. Það alt er sýnilega stóratriði, svo hryggilegt stóratriði, sem unt er að hugsa sér. En það hryggilega stóratriði átti sína dýpstu rót í því, að enginn af þessum forherta, dæmda lýð hafði fengist til þess að láta það laust við Jesúm, sinn eigin fyrirheitna Messías, sem hann af einskærum kærleika heimtaði að þeir slepti út úr hjörtum sínum og lífi.

Vinir mínir, alt, sem frelsarinn heimtar að sé látið laust, nú eins og forðum á hans holdsvistardögum, í gær og í dag og að eilífu, allar fórnirnar, sem hann biður um, öll sjálfsafneitanin, sem kristindómsorðið heldur að mönnum sem skilyrði fyrir því, að guðs ríki geti til þeirra komið eða hjá þeim haldizt, — það er bindindi, bindindi í kristilegum skilningi. Að því, er til vor mannanna kemur, er hálfur kristindómurinn bindindi, sjálfsafneitan, fórn, syndflýjandi, guðelskandi kærleiksfórn. Og að því, er til guðs kemur, er allur kristindómurinn bindindi, sjálfsafneitan, fórn. „Svo elskaði guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn son, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki glatist, heldur hafi eilíft líf.“ Guð leggur sitt eigið hjarta í sölurnar syndugra manna vegna. Guðs sonur sleppir

hinni himnesku dýrð og sælu til þess að lifa heilögu fórnarlífi og deyja kvaladauða krossfestingarinnar, heilögum friðþægingardauða, hér niðri á jörðinni, svo hin synduga kynslóð mannanna fái frelsast. Það er kærleikur, sjálfsafneitan, bindindi. Vér trúum á bindindi hjá guði. Og vér trúum á bindindi hjá öllum lærisveinum frelsarans eins og sjálfsagðan ávöxt af bindindinu hans, fórnargjörðinni hans.

Á hið fyrra erum vér mintir með sögunni a''ri um innreið Jesú til Jerúsalemsborgar, haldandi því föstu, að með þeirri innreið kastaði hann sér fyrir fult og alt út í ofsóknirnar, píslirnar og dauðann. Og á hið síðara erum vér mintir með þessum orðum úr sömu sögunni: ,,og þá mun hann jafnsnart láta þau laus.'' Guðspjallið á fyrsta sunnudag í aðventu er þá í sannleika bindindisguðspjall. En þó snertir pistill dagsins, hin lexían, sem útvalin hefur verið af kirkjunni endur fyrir löngu fyrir fyrsta dag kirkjuársins, úr 13. kap. Rómverjabréfsins, enn þá meir beinlínis bindindismálið. Því um leið og postulinn þar með heilögum anda yfir sér minnist þess, að nóttin sé umliðin og dagurinn í nánd, heiðindómsnóttin langa, ömurlega að þoka fyrir dagsbirtu kristindómsopinberunarinnar, kemur hann fram með ýmsar hátíðlegar áskoranir til allra lesenda og heyrenda bréfs síns eins og nokkuð alveg sjálfsagt í sambandi við þau andlegu tímamót: ,,Leggjum því af verk myrkursins og íklæðumst herklæðum ljóssins. Framgöngum sómasamlega eins og á degi, ekki í ofáti eða ofdrykkju, ekki í saurlifnaði né munaðarlífi, ekki í þrætu né öfund; heldur íklæðizt drotni Jesú Kristi, og alið ekki önn fyrir holdinu til að æsa girndir.'' Það geta allir heyrt, að þetta er

beinlínis bindindisprédikan. Allar þessar postullegu áskoranir til kristinna manna beinar bindindisáskoranir. Og þær allar frambornar af þeim manni, sem játar um sjálfan sig, að þó að hann sé engum manni háður, hafi hann samt gjört sjálfan sig að hvers manns þjóni, á meðal Gyðinga sem Gyðingur, hjá lögmálsmönnunum eins og undir lögmálinu, hjá hinum lögmálslausu sem lögmálslaus, meðal hinna óstyrku sem óstyrkur, — maður, sem eftir að hann hafði gengið frelsaranum á hönd kappkostaði að vera og í sannleika var öllum alt, svo hann með þeirri þjónustu og þeirri sjálfsafneitan fengi hjálpað sem flestum inn í guðs ríki til frelsarans, — með öðrum orðum: maður, sem öllum mönnum betur, þeirra, er að eins hafa verið menn, kunni að prédika heiminum bindindi — kristilegt bindindi — með lífi sínu.

Og hugsum svo aftur um það, út af hverju hann í pistli dagsins aðallega leiðir allar þessar bindindisáskoranir. Hann leiðir þær út af þeim andlegu tímaskiftum, sem þá eru nýkomin fyrir í mannkynssögunni, deginum, sem þá var að fæðast í heiminum út af fagnaðarerindinu um Jesúm Krist, nóttinni, sem á sama tíma og af sömu orsök var að dvína og deyja út. Hann veit, að nýtt ár, náðarár guðs, frelsisár mannanna, hið margumspáða, fyrirheitna júbílár trúaðra er upprunnið, einmitt þá að upprenna, í heiminum. Hann hugsar um sólina andlegu, sem stýrir þessu ári: hinn krossfesta og upprisna Jesúm Krist. Í hans nafni skyldi öll sú sjálfsafneitan, öll sú fórnargjörð, sem heimta þyrfti af mönnunum, geta orðið þeim ljúf og létt. Í hans nafni var óhætt að prédika öllum bindindi. Í hans nafni var postulinn sjálfur genginn í hið

fullkomnasta bindindi, sem unt er að hugsa sér. Og slíkt bindindi var óhætt að prédika öðrum, sjálfsagt að prédika öllum mönnum um leið og hann kallaði þá inn í guðs ríki og boðaði þeim komu hins nýja náðarárs.

En ég er enn þá ekki kominn að því, sem í daglegu tali manna nú á tímum er kallað bindindi; því svo sem yður öllum er kunnugt er vanalega með því orði nú að eins átt við það, að halda sér frá einni sérstakri líkamlegri nautn, nautn víns eða áfengra drykkja. Bindindi er, eins og ég skal bráðum nákvæmar gjöra grein fyrir, biblíulegt, kristilegt orð, en í hinum gamla skilningi, hinum upphaflega skilningi, hefur það miklu miklu víðtækari merking en nú alment er í það lögð í daglegu tali almennings. Orðið er nú í meðvitund manna, líka kristinna manna, sem trúa á boðskap biblíunnar eins og guðs orð og játa, að hann sé eina áreiðanlega reglan fyrir líf manna, búið að fá miklu þrengri merking en áður, svo þrönga, að það nær að eins til eins einasta bindindisatriðis. Og svo fer því víst ekki mjög fjarri, að sumir, til þess ekki að segja margir, svo kallaðir bindindismenn — í hinum nýja skilningi orðsins — sé búnir að gleyma því, að kristnir menn sé af guðs orði skyldaðir til að vera að nokkru öðru leyti í bindindi en að því, er snertir nautn áfengra drykkja. Og þeir hinir sömu menn hafa þá líka augsýnilega sterka freisting til að telja sig hafa rækt aðalskyldu kristindómsins, að því, er til lífernisins kemur, ef þeir að eins fást til þess að vera í vínbindindi. Þetta er nú meir en lítið slæmt, hin háskalegasta villa, sem þá og þegar getur leitt til þess, að menn óafvitandi missi frá sér kristindóminn, detti út úr guðs ríki. En á hinn bóginn liggja eðlileg söguleg rök að því, að hið

Hver, sem trúir og er skírður, mun hólpinn verða.
Ó, drottinn, veit oss þetta öllum.
*Söfn.*: Amen.

4. (*Introitus*,* messuupphaf.)

*Pr.*: Barn er oss fætt, sonur er oss gefinn.
*Söfn.*: Á hans herðum skal höfðingjadómurinn hvíla.
*Pr.*: Hann skal heita hinn undrunarlegi, ráðgjafi, hinn máttugi, sterki guð,
*Söfn.*: faðir eilífðarinnar, friðarhöfðingi.
(Es. 9, 5.)

(*Psalma*.*)

*Pr.*: Syngið drotni nýjan söng.
*Söfn.*: því dásamlega hluti hefur hann gjört.
(Sálm. 98, 1.)

(*Gloria patri*.)

*Söfn.*: Dýrð sé guði föður, syni og heilögum anda svo sem var frá upphafi, er enn og verða mun til eilífðar. Amen.
(Í staðinn fyrir *introitus* má koma sálmur.)

5. (*Kyrie*.)

*Pr.*: Drottinn, miskunna þú oss!
*Söfn.*: Drottinn, miskunna þú oss!
*Pr.*: Kristur, miskunna þú oss!
*Söfn.*: Kristur, miskunna þú oss!
*Pr.*: Drottinn, miskunna þú oss!
*Söfn.*: Drottinn, miskunna þú oss!

6. (*Gloria in excelsis*.)

*Pr.*: Dýrð sé guði í upphæðum!
*Söfn.*: Dýrð sé guði í upphæðum, friður á jörðu

---

*) Þessi *introitus* og *psalma* er ætlaður jólunum. Annars hefur hver helgidagur kirkjuársins sérstakar ritningargreinir, sem þannig kallast.

og velþóknun yfir mönnunum. Vér lofum þig, vér göfgum þig, vér dýrkum þig, vér tignum þig, þakkir gjörum vér þér sakir mikillar dýrðar þinnar, drottinn guð, himneski konungur, almáttugi faðir! Ó, drottinn Jesús Kristur, þú eingetni sonur, ó, drottinn guð, lamb guðs, sonur föðursins, þú, sem burtu ber heimsins synd, miskunna þú oss! Þú, sem burtu ber heimsins synd, þigg þú bæn vora! Þú, sem situr til hægri handar guði föður, miskunna þú oss! Því þú einn ert heilagur, þú einn ert drottinn, þú einn, ó, Kristur, með heilögum anda ert hæst í dýrð guðs föður. Amen.

7. (*Salutatio* og kollektan.)

*Pr.*: Drottinn sé með yður!

*Söfn.*: Og með þínum anda!

*Pr.*: Látum oss biðja!

(Presturinn flytur kollektu dagsins.)

*Söfn*: Amen.

8. (Pistillinn.)

*Pr.*: Pistillinn á 1. sunnudag í aðventu er ritaður o. s. frv.

(Pistillinn lesinn eða tónaður.)

9. *Söfn.*: Hallelúja!

(Um föstutímann er því slept. Í stað hins einfalda hallelúja má syngja vers úr Davíðs sálmum (*sententia*), valið eftir kirkjuárinu, eða heilan sálm, eða part úr sálmi (*canticulum*). Vanalegan sálm má syngja á eftir hallelúja.)

10. (Guðspjallið)

*Pr.*: Guðspjallið skrifar guðspjallamaðurinn o. s. frv.

*Söfn.*: Dýrð sé þér, drottinn!

(Guðspjallið lesið eða tónað.)

*Söfn.*: Prís og heiður sé þér, Kristur! Eða: Guði sé lof og dýrð fyrir hans gleðilegan boðskap.

11. (Trúarjátning, *Credo.*)

Annaðhvort postullega trúarjátningin eða sú, sem kend er við *Nícaea* skal lesin eða sungin.)

12. Sálmur.

13. Prédikun.

14. (Hin postullega blessun.

Að endaðri prédikun stendur söfnuðurinn á fætur og presturinn lýsir hinni postullegu blessun:)

*Pr.*: Náðin drottins vors Jesú Krists o. s. frv. (2. Kor. 13, 13.)

Eða:

Friður guðs, sem æðri er öllum skilningi, haldi hjörtum yðar og hugsunum stöðuglega við Jesúm Krist. (Fil. 4, 7.)

15. (*Offertorium.* Allir syngja:)

Sundurkraminn andi er guði þægileg fórn. Harmþrungið og sundurmarið hjarta munt þú, ó, guð, ekki fyrirlíta. Gjör þú vel við Síon eftir þinni velþóknun. Uppbygg þú Jerúsalems múrveggi. Þá munt þú gleðjast af guðrækilegum fórnum.

16. (Hin almenna kirkjubæn.

Á meðan *offertorium* er sungið af söfnuðinum gengur presturinn fyrir altarið og þar flytur hann hina almennu bæn og bætir inn í hana þeim sérstökum fyrirbænum, sem ástæða kann að vera til. Að henni endaðri er öll bænagjörðin látin felast í drottinlegri bæn, með því móti, að presturinn annaðhvort flytur hana, eða prestur og söfnuður ber hana fram með einum munni. Þá skulu djáknarnir taka á móti offri safnaðarins, þar sem þetta er siður, rétta það síðan prestinum, en hann leggur það á altarið.)

17. Sálmur.

18. (Drottinleg blessun.

Presturinn, standandi fyrir altarinu, lýsir nú drottinlegri

blessun yfir söfnuðinum, sem áður hefur staðið á fætur. Söfn. svarar:)

Amen.

(Söfnuðurinn endar guðsþjónustuna með því að hneigja höfuð sín og flytja þögula bæn til drottins.)

---

## Kvöldmáltíðin.

þegar einhverjir eru til altaris, á presturinn að búa sig undir útdeiling þessa sakramentis meðan sálmurinn er sunginn á eftir prédikun. Hann snýr sér þá að söfn., og þessi *praefatio* byrjar:

1. *Pr.*: Drottinn sé með yður!

*Söfn.*: Og með þínum anda!

*Pr.*: Lyftið upp hjörtum yðar!

*Söfn.*: Sannarlega er það tilhlýðilegt og rétt.

*Pr.*: Sannarlega er það tilhlýðilegt, rétt og heilsusamlegt, að vér á öllum tímum og á öllum stöðum þökkum þér, ó, drottinn, heilagi faðir, almáttugi og eilífi guð,

því*) í leyndardómi orðsins, sem varð hold, hefur þú gefið oss nýja opinberun dýrðar þinnar, svo að vér verðum knúðir til að elska þá hluti, sem ekki sjást, þegar vér sjáum þig í persónu sonar þíns.

þess vegna lofum vér og tignum þitt dýrðlega nafn með englum og útvöldum og öllum himnanna hersveitum, prísum þig óaflátanlega og segjum:

2. (*Sanctus*. Allir syngja:)

Heilagur, heilagur, heilagur er herskaranna drott-

---

*) Hér byrjar sú *praefatio*, sem tilheyrir jólunum. Hvert tímabil kirkjuársins hefur sérstaka *praefatio*.

inn; himinn og jörð eru full af þinni dýrð.
Hósanna í hæstum hæðum.
Blessaður sé sá, sem kemur í nafni drottins.
Hósanna í hæstum hæðum.

3. Áminning til altarisgestanna.

4. Drottinleg bæn.

5. Innsetningarorðin.

6. *Agnus Dei* (Ó, guðs lamb) sungið af söfn.

7. (Presturinn, sem þá snýr sér að söfn., segir:)

Friður drottins sé ávalt með yður!

*Söfn.*: Amen!

8. Útdeiling.

9. (*Nunc dimittis.* Allir standa og syngja:)

Nú lætur þú, drottinn, þjón þinn í friði fara, eins og þú hefur mér heitið.

Þar eð ég hef fengið að sjá hjálpræði þitt, sem þú hefur fyrirbúið fyrir augliti allra þjóða.

Ljós til opinberunar heiðingjum og vegsemdar þínum lýð, Ísrael.

Dýrð sé guði föður, syni og heilögum anda, svo sem var frá upphafi, er enn og verða mun um aldir alda. Amen.

10. (Þakkargjörð.)

*Pr.*: Þakkið drotni, því hann er góður.
*Söfn.*: Og hans miskunnsemi varir eilíflega.
(Kollekta á eftir altarisgöngu.)
*Söfn.*: Amen.

11. (*Salutatio.*)

*Pr.*: Drottinn sé með yður!
*Söfn.*: Og með þínum anda!

12. (*Benedicamus.*)

*Pr.*: Blessum drottin!
*Söfn.*: Þökkum guði!

13. (Drottinleg blessun.)

*Söfn.*: Amen.

14. (Þögul bæn, eða sálmur.)

---

Þótt form þetta kunni nú að sýnast miklu lengra en það, sem vér höfum átt að venjast, er það ekki svo í raun og veru. Sálmarnir eru sungnir þeim mun færri, sem meira er sungið af öðru, enda er sálmasöngurinn látinn taka upp óhæfilega langan tíma samkvæmt því guðsþjónustuformi, sem nú tíðkast í kirkju vorri. Nú er faðir-vor haft þrisvar um hönd við hverja guðsþjónustu, en fimm sinnum, ef skírn og altarisganga fer fram, og má það heita hrein og bein misbrúkun á drottinlegri bæn, enda afleiðingin sú, að hún er langoftast höfð um hönd sem þula, er engin hugsun fylgir. Þar sem tíðareglurnar hafa ekki verið látnar alla vega afbakast, er látið sér nægja að flytja þá bæn einu sinni eins og það guðsþjónustuform ber með sér, sem hér hefur verið prentað, og sjá allir, hve miklu skynsamlegra það er. Íslenzkt kirkjufólk er hætt að kunna að biðja sitt faðir-vor og þessi blessaða bæn þannig orðin að mestu leyti þjóð vorri ónýt, meðfram af því, að hún hefur verið þulin svo oft við messugjörðirnar, og ætti það að vera ofur lítil bending um, að ekki stendur alveg á sama, hvernig guðsþjónustuformið er.

Guðsþjónustuform það, sem prentað er hér að framan, er óumræðilega hátíðlegt, þegar söfnuðurinn er orðinn því vanur og hefur það um hönd með réttum skilningi, smekk og tilfinning. Það er eitt af meistaraverkum mannsandans, sem margar liðnar aldir hafa

lagt sinn skerf til að fegra og fullkomna. Inn í það eru fléttuð orð úr Davíðs sálmum, orð, sem spámennirnir töluðu, þegar andi drottins lyfti fortjaldi tímans frá og sýndi þeim frelsisvon mannkynsins; og hér eru orðin, sem flugu út úr hjarta Símeons, þegar hann hélt frelsara mannanna á örmum sér. Guðsdýrkun allra kynslóða og allra alda er hér dregin saman í eitt. Hér er syndajátning og hér er fyrirgefning syndanna. Hér er trúarjátning og bænarákall. Hér er lofsöngur og þakkargjörð. Hér er mál englanna gjört að máli mannanna. Hér hrópa mennirnir til drottins og hér svarar hann þeim aftur. Hér tala bæði postular og guðspjallamenn. Hér er bæði lögmál og evangelíum, bæði synd og náð. Hér er guðleg blessun og hér er mannleg fórnargjörð. Hér er safnað saman eins og í dýrðlega sýning öllu því, sem farið hefur og fara mun á milli guðs og manna. Hér er drottinn með alla hina kærleiksríku frelsisráðstöfun sína frá upphafi vega. Og hér er maðurinn með alla sögu sína um fall, iðrun, afturhvarf og trú. Hér er hásæti drottins og maðurinn á ásjónu sinni frammi fyrir honum.

Það eru þrjú atriði í þessu guðsþjónustuformi, sem mér finst mest um vert að fá aftur. Hið fyrsta er syndajátning og aflausn. Syndameðvitundin er orðin dauð og dofin hjá oss, og þess vegna fer prédikunin um fyrirgefning syndanna fram hjá oss eins og ræða á útlendu tungumáli. Aflausninni er nú hnýtt aftan við skriftaræðuna og hvorttveggja fer ákaflega illa eftir núverandi fyrirkomulagi, þar sem það er látið skrölta laust framan við hina eiginlegu guðsþjónustugjörð. Þýðing aflausnarinnar er alveg töpuð úr meðvitund ísl. kirkjulýðs; naumast nokkur leikmaður, sem veit, að

eitt atriði hinnar núverandi guðsþjónustu heitir því nafni. það mundi stórum bæta guðsþjónustur vorar, að bæta syndajátning og aflausn inn í tíðareglur vorar.

Hið annað atriði, sem endilega ætti að komast inn í hið íslenzka guðsþjónustuform vort, er hin postullega trúarjátning. Oss er farið að þykja minkun að öllum trúarjátningum, og fáir þykjast eiginlega vera bundnir við neina trúarjátning og margir búnir að gleyma, upp á hvað þeir voru skírðir og fermdir. Kristinn söfnuður á stöðugt að vera að játa trú sína, til þess fyrst og fremst sjálfur að styrkjast í trúnni og þar næst til að draga aðra inn í kirkjuna. það er enginn vafi á því, að íslenzka kirkjan þarf að fara að játa trú sína betur en hún hefur gjört og halda þeirri játning betur á lofti en hingað til. þessu hefur líka verið hreyft í sumar á synódus, og eftir því, sem séð verður, hefur þar verið samþykt, að lesa mætti trúarjátning af prédikunarstól. Íslenzkum prestum hefur verið gefið leyfi til þess, svo hér eftir mega þeir það, án þess að gjöra sig seka um nokkur afglöp. þetta er þannig haft sumstaðar í Danmörk, og það er sú danska fyrirmynd, sem menn hafa haft í huga, þegar þetta var samþykt. En trúarjátning á að vera borin fram á eftir guðspjalli, sem svar safnaðarins upp á náðarboðskapinn, meðan presturinn stendur fyrir altari; gjörir söfnuðurinn það annaðhvort syngjandi eða með vanalegum málróm, þannig, að allir bera orðin fram í einu hver með öðrum, eða þá presturinn gjörir það í safnaðarins stað. Sé trúarjátningin borin fram af prestinum af prédikunarstól, verður það hann, sem persónulega ber fram játning sína, eins og ræðan, sem

hann flytur, er persónulegur vitnisburður um frelsarann frá eigin brjósti hans.

þriðja atriðið er hin almenna safnaðarbæn. það eyfi, sem vér eigum eftir af henni, er eiginlega sama sem ekki neitt. það er nokkurn veginn alveg komið út úr meðvitund íslenzks kirkjulýðs, að guðs hús sé bænahús, að söfnuðurinn komi þangað aðallega til að biðjast fyrir. þá meðvitund þarf að vekja aftur til lífs með öllu móti. Fögur og fullkomin safnaðarbæn, sem þá ætti að vera borin fram af prestinum, standandi fyrir altari, mundi gjöra sitt til að kenna mönnum að biðjast fyrir í kirkjunni, og er það stórmikið atriði, sem aldrei verður lögð of mikil áherzla á.

Drottinn hefur leitt þessa hreyfing til endurbóta á tíðareglum inn í hið íslenzka kirkjulíf. Hún hefur borist eins og aðrar hreyfingar berast til vor þaðan, sem meira fjör er í hugsunum og framkvæmdum en hjá oss og umfram alt meiri áhugi á velferðarmálum kirkjunnar og kristindómsins. þótt oss kunni nú að sýnast, að hún hafi til vor komið helzt til snemma, áður en lífið sjálft er vaknað, sem öll form verða dauð og þýðingarlaus án, ættu allir vinir kirkju vorrar að sýna henni rækt og velvild og hugsa sem svo: Hún er frá guði komin. Hver veit nema hreyfing þessi geti orðið verkfæri í hendi drottins til að vinna eitthvert kraftaverk og vekja til lífsins eitthvað, sem sefur, ef þeir, sem honum vilja þjóna af einlægu hjarta, leitast við af öllu afli að beina henni inn í heppilegan farveg.

það er of snemt enn að gefa handbókina út í endurbættri mynd. Menn eru ekki búnir að átta sig, fara nú fyrst úr þessu að gefa því ofur lítinn gaum. það liggur heldur ekkert á. því ekki bíða nokkur ár

enn og ræða málið smámsaman í hinum kirkjulegu tímaritum og láta þá, sem til þess kunna að finna köllun, afla sér meiri þekkingar?

það er tvent í þessu sambandi, sem allir kirkjulegir leiðtogar þyrftu að hafa hugfast. Fyrst og fremst þyrftu þeir að leggjast á eitt með, að koma íslenzku safnaðarfólki í skilning um, að form er form, og á ekki að þrælbinda neinn, hvorki prest né söfnuð, svo að það þyki afglöpum næst, ef út frá einhverju smáatriði er vikið. Formið er til mannanna vegna, en ekki öfugt.

þar næst þurfum vér allir að hafa hugfast, að svo framarlega sem vér viljum gjöra einhverjar endurbætur á tíðareglum kirkju vorrar, sem sannarlega er engin vanþörf á, megum vér ekki hringla fram og aftur, þar sem um þennan sögulega arf kirkju vorrar er að ræða, heldur leitast við að eignast aftur guðsþjónustuform lútersku kirkjunnar í hinni fögru upprunalegu mynd þess. þetta eru meginreglur, sem trúarbræður vorir hvervetna í heiminum stöðugt fylgja, þegar þeir taka þetta þýðingarmikla efni til meðferðar.

# Undir linditrjánum.

—

*Fyrr og nú.* Í merkasta tímaritinu, sem vér Íslendingar höfum átt, var gefið yfirlit yfir allar bækur, sem út höfðu komið árinu áður. Ritgjörðirnar um þetta efni í *Fjölni* eftir síra Tómas Sæmundsson hafa haft ákaflega mikla þýðing fyrir íslenzkar bókmentir, — svo mikla þýðing, að eiginlega er alveg ómögulegt að gjöra sér grein fyrir hinum víðtæku áhrifum, sem andi hans hefur haft á andlegt líf þjóðar vorrar. Ritgjörðir þessar verða eflaust lesnar eins lengi og nokkur maður lætur sig langa til að kynna sér bókmentasögu vora. Nokkuð eru dómar hans harðir oft og tíðum, ef það á annað borð er leyfilegt, að kalla þann dóm harðan, sem sprottinn er af kærleika og velvild. Enda hefðu dómar hans verið árangurslaust mald í móinn, ef hann hefði brostið einurð og kjark til að taka af öll tvímæli um gallana og vankantana. Íslenzk bókagjörð var þá í mesta barndómi og átti við ótal örðugleika að stríða, sem vér nú naumast getum gjört oss grein fyrir. En andi síra Tómasar var stórhuga. Hann vildi ekki láta íslenzkar bækur standa öðrum á baki, hvorki að því, er búning né efni snerti. Hann vildi láta Ísland eignast marga rithæfa menn, sem hefðu eins ekta andans vín

á boðstólum og rithöfundar annara landa; og hann vildi láta þá bera það fram í jafn-glóðögrum kerum. Það sýndist vera nokkuð djarft að koma fram með aðra eins kröfu og þetta þá, þegar andlegt líf þjóðar vorrar var eins og ljós, sem blaktir á skari. Kærleikurinn er ætíð djarfur, — enginn til eins óumræðilega stórhuga og hann. Sami kærleiksandinn þarf enn að hvíla yfir hinu myrka djúpi þjóðlífs vors, því á sínum tíma skapar hann ljóshnetti og setur þá á festingu himinsins og klæðir það, sem áður var bert og nakið, með grösum og jurtum.

Bókmentalegt líf í löndunum stendur ekki eitt og út af fyrir sig, fráskilið öllu öðru, heldur er það í nánasta sambandi við það menningarstig, sem þjóðin hefur náð. Hugsun rithöfundanna stendur svo sem að sjálfsögðu í sambandi við hugsanirnar, sem þjóðin er að velta fyrir sér. Andlegu umbrotin í sálum þeirra verða sterk eða afllaus eftir því, hvort andleg umbrot eru mikil eða lítil í lífi þjóðarinnar. Fegurðarstigið, sem þeim tekst að ná, þegar þeir eru að skrýða hugsanir sínar, fer eftir því, hve næm eða sljó fegurðartilfinningin er hjá þjóðinni. Andlega loftslagið, sem þeir lifa í, kemur ósjálfrátt fram í bókum þeirra. Það má þekkja Íslendinginn álengdar, þótt hann mæti oss í útlendum búningi á fjölförnu stræti í erlendri stórborg.

Það er einn stór og mikill aðal-galli á íslenzkum bókum nú á yfirstandandi tíð. Þær halda engri fastri, ákveðinni hugsun fram. Vér erum að fylla hýbýli vor með pappír og prentsvertu, en hjörtu vor eru jafn-tóm eftir lesturinn. Bækurnar hafa, ef til vill, stytt oss stundir og skilið eftir fáeina fróðleiksmola. En hvaða lífsvísdóm hafa þær skilið eftir hjá oss? Hafa þær

gjört oss að meiri og betri mönnum? Hafa þær aukið dugnað vorn og kjark? Hafa þær sannfært oss um nokkurt sannleiksatriði, sem vér engan gaum höfðum gefið? Hafa þær kent oss, hvernig vér eigum að fara með þetta dýrmæta líf vort, svo það verði oss ekki öldungis ónýtt eða verra en ónýtt? Hafa þær vakið anda vorn, rutt hugsunum vorum nýja braut, hrundið oss út í baráttu við óvini lífsins, en kent oss að krjúpa á kné fyrir lávarði þess og herra?

Bækur, sem ekki gjöra þetta, eru ónýtar bækur. Höfundar, sem semja bækur án þess að hafa nokkurn hlut til að segja, sem gagn er í, nokkra hugsun, sem borið getur ávöxt, eru bráðónýtir höfundar, sem gjöra mundu miklu þarfara verk með því að vera smalar eða sjómenn, eða sitja inni á palli og prjóna sokk eða kemba ull. Duggarabandssokkurinn eða sjóvetlingurinn er miklu heiðarlegra smíði en ónýt bók, sem engri skynsamlegri eða þarflegri hugsun heldur fram. Og aðalgallinn á vorum íslenzku bókum er nú einmitt þetta: þær auka svo lítið auðlegð hugsana vorra.

Nú eru liðin nærri 60 ár síðan Tómas heitinn Sæmundsson varð á bezta aldri að láta pennann falla úr hendi sér. Sextíu ár er býsna langur tími, því sem næst tveir mannsaldrar. Á þeim tíma hefðum vér átt að taka heilmiklum framförum. Heiminum hefur fleygt áfram á þessum árum. Og víst er um það, oss hefur farið fram í mörgu. Ekkert spor, sem áfram er stigið, ættum vér að vanþakka. Það er talsvert meiri menningarbragur kominn á lífið nú en þá. Það eru nokkuð fleiri rithæfir menn til á meðal vor nú en þá. Málið er hreinna, fegra, auðugra. Bækur eru miklu fleiri gefnar út og bókagjörð orðin miklu vandaðri,

En naumast mundi síra Tómas sérlega ánægður enn, ef bækur þær, sem út hafa komið á árinu, ættu að mæta frammi fyrir dómstóli hans. Að vísu mundi brún hans hefjast heilmikið yfir sumum þeirra. En yfir fleirum mundi hann hrista höfuðið. Hann mundi nú eins og forðum finna nokkrar, þar sem ,,útgefendurnir hafa ekkert lagt til af eigin forða, nema leiðrétting prófarkanna, formálann og prentvillurnar''. Hann mundi, ef til vill, aftur óska, ,,að heilar arkir væru stundum tómar eyður og slettur og klessur, svo enginn lifandi maður gæti lesið þær''. Hann mundi furða sig á, hve litlum andlegum þroska vér höfum náð á svo löngum tíma og undrast yfir hugsanafátækt nútíðarhöfundanna, ekki síður en skorti þeirra á öflugri sannfæring.

Eftir þessi sextíu ár eigum vér fáa menn honum jafn-þroskaða, með eins vakandi anda, eins glöggan skilning, eins kjarkmikla dómgreind, eins víðtækan sjóndeildarhring, eins óbilandi trú á möguleik framfaranna. Ef tekið hefði við af honum annar jafnsnjall maður, er staðið hefði jafn-trúlega á verði og haldið svipunni jafn-einbeittlega á lofti, og þó talað af jafn-miklum kærleika, mundu einhverstaðar sjást þess merki. Langt erum vér enn þá frá því, að hafa náð þeirri bókmentalegu hugsjón, sem fyrir honum vakti.

Oss Íslendinga skortir enn siðferðislegan þrótt og alvöru til að skapa bókmentir, er varanlegt gildi hafi og öðlast geti almenna viðurkenning fyrir utan hin þröngu takmörk þjóðar vorrar. Oss skortir ekki gáfurnar, hæfileikana. En oss skortir þann siðferðislega þrótt, sem er skilyrðið fyrir því, að gáfurnar fái að njóta sín. Vér eigum nóg af gáfuðum unglingum. En heill hóp-

ur þeirra er eins og njólar, sem hlaupa í fræ löngu fyrir tímann og verða svo að engu. Mest af þeim skáldskap, sem vér eigum, hefur til orðið á óþroskaðasta skeiði mannsæfinnar, og sum skálda vorra hafa steinhætt að yrkja, þegar það tímabil var á enda og þroski fullorðins-áranna kominn yfir þá. Hjá oss er töluvert af bókmentalegum tilþrifum, en þolið og þroskann vantar. Og víða kemur fram tilfinnanlegur skortur á mentun og skilningi. Sjóndeildarhringurinn, sem bundinn er við hólmann litla úti í hafinu, kemur of mjög í ljós. En aumast er þó alvöruleysið, flysjungshátturinn, kæruleysið um lífið, hvort því er varið til nokkurs eða ekki neins. Það er eins og oss finnist vel flestum ekki ómaksins vert, að verja lífi voru til nokkurs hlutar.

„Ef þú gengir að morgni dags inn í mjólkurskemmuna þína og yrðir var við, að yngsta barnið þitt hefði komist þangað á undan þér og væri að leika sér við köttinn, og að það hefði helt öllum rjómanum niður á gólfið handa kettinum að lepja, þá mundir þú átelja barnið og þér mundi falla illa, að rjóminn skyldi fara svona til spillis. En ef það væru nú í staðinn fyrir tréílát með mjólk gullskálar með mannlegu lífi, og í staðinn fyrir köttinn sem leikbróður — djöfullinn sem leikbróðir, og þú sjálfur værir að leika þér við hann, og í stað þess að láta guð brjóta gullskálina við uppsprettuna, brytir þú hana sjálfur niður í skarnið og heltir mannlegu lífi niður á jörðina handa fjandanum að sleikja það upp, — það finst þér ekki að láta fara til spillis“ (*Ruskin*).

Það fer of mikið til spillis hjá oss á þennan hátt. Ef þetta á að lagast, verður kristindómurinn að

koma til sögunnar. Hann einn er fær um að varðveita lífsþrótt þjóðanna og gefa þeim þol til andlegra og líkamlegra framkvæmda. Vér þurfum að eignast aftur prédikara eins og Vídalín, — réttlætispostula á öllum svæðum lífsins, menn með kristindóm í hjartanu og kristindóm í orðum eða gjörðum. Annars brotnar gullskál þjóðlífs vors niður í skarnið og alt fer til spillis.

Það er í þessu sambandi eftirtektarvert, að Tómas Sæmundsson, sá maður, sem einna mest hefur borið vöxt og viðgang íslenzkra bókmenta fyrir brjóstinu og meira hefur á sig lagt þeirra vegna en flestir aðrir, var prestur. Og þá ekki síður það, að nú nærri sextíu árum eftir dauða hans eru það tveir prestar, sem bera íslenzka ljóðagjörð á herðum sér. Það má svo að orði kveða, að þeir einir haldi nú uppi söngnum í bókmentakirkju þjóðar vorrar; að minsta kosti eru þeir forsöngvararnir. Ef þeir væru ekki, væri þar líklega orðið messufall fyrir löngu síðan, sökum söngleysis.

---

*Biblíuljóð.*
*II.*

Merkilegast af öllu, sem út hefur komið á íslenzku síðan við sátum undir linditrjánum í fyrra, er annað bindi biblíuljóðanna. Vér skröfuðum þá og skeggræddum all-ítarlega um fyrra bindið og ættum nú að gjöra hinu seinna sömu skil. Fyrra bindið var 414 bls. og í því voru 120 kvæði. Seinna bindið er 448 bls. á stærð og kvæðin 89, en flest miklu lengri en í hinu fyrra. Það er sami blærinn á þeim öllum, eins og búast mátti við, og þess

vegna ekkert verulega nýtt að segja um þau frá íþróttarlegu sjónarmiði. Hér er sama sólskinið, sami léttleikur og list, sami snildarbragur á meðferð máls og kveðandi, sömu ljósu hugsanirnar, sami leikurinn með orð og hugmyndir. Kvæðin í seinna bindinu virðast mér öllu jafnari; það er færra þar af kvæðum, sem lítið skáldlegt gildi hafa. Aftur á móti er fleira að athuga um meðferð efnisins í síðara bindinu. Efni nýja testamentisins er mönnum miklu kunnugra og um leið er það enn þá heilagra í meðvitund manna en efni gamla testamentisins. Það er heilög jörð, og þar stendur maður fast hjá hinum logandi þyrnirunni. Ekki svo að skilja, að lotningin fyrir hinu heilaga sé ekki á nógu háu stigi í þessum nýja testamentis ljóðum. Hún er þar vissulega bæði djúp og há. Skáldið hefur einmitt viljað margfalda hana í hjörtum lesenda sinna. En hér var alveg nauðsynlegt að vera undur varasamur, leita sér ekki stuðnings í hinu gífurlega og ofsafengna og hagga ekki frásögninni. Hún hefur grafist svo langt inn í meðvitund manna, að það hjálpar ekki. Við það að lesa nýja testamentis ljóðin hef ég betur og betur sannfærst um, að það að meira hefur verið fundið að síðara bindinu af þeim, sem vænst þykir um þessi ljóð, er ekki vegna þess að skáldlist síra Valdimars sé þar ekki á jafn-háu stigi, heldur vegna hins, að hann hefur látið ímyndunarafl sitt æðivíða fara of geyst. Dagar Kloppstokks og Miltons eru nú fyrir löngu liðnir. Jafnvel Oehlenschlæger og Tegnér erú nú fallnir í gleymsku og dá. Það dugir ekki nú á dögum að hafa aðferðina þeirra, hversu mikilfenglegur sem skáldskapur þeirra er og þrunginn af andagift. Nú fara skáldin miklu varlegar með

veruleikann heldur en þá, hvort sem þeir fylgja realista*)-stefnunni í einu og öllu eða ekki. Síra Valdimar yrkir eins og hún hefði aldrei verið til. Það er nú að sumu leyti lán, en að öðru leyti ólán. Hann hefur komist fram hjá skerjum þeirra, en líka látið margt gott, sem þeir hafa uppgötvað á sigling sinni, fara fram hjá sér. Ég fyrir mitt leyti hef óbeit á öfgum realistanna. Ég gleðst yfir því, að hengillinn á stundaklukku skáldskaparins er nú farinn að hreyfast í hina áttina. En ég óskaði oft, þegar ég var að lesa þetta síðara bindi biblíuljóðanna, að skáldið á Stóranúpi, sem ég annars ber svo mikla lotningu fyrir, væri ögn meiri realisti en hann er. Ég skal nú gjöra ofur lítið nákvæmari grein fyrir þessu.

Í kvæðinu ,,Jólanóttin" lætur skáldið hvert orð, sem engillinn talar til hjarðmannanna, verða að engli og orðin þeirra svo aftur að öðrum englum (bls. 24). Hreysið, þar sem frelsarinn fæddist, virðist hjarðmönnunum verða að musteri drottins, sem nái upp til himins, og þar sjái þeir allar þjóðir jarðarinnar safnast saman og tilbiðja drottin (26). Seinast eru englarnir aftur látnir verða að stjörnum (27). — ,,Freistingin" er langt kvæði. Þar er þetta ljómandi vísuorð (63):

,,Varð þá gnýr sem þúsund þrumur riðu,
þungan stundi' hið afar háa fjall;
sogaðist haf í ógurlega iðu,
aldan tryld á hamrabrúnum skall;
jörðin skalf sem skógarlauf í vindi

*) Menn verða að fyrirgefa mér, að ég segi enn þá ,,realisti", en ekki ,,hlutsæingur"; því mér finst það svo ófrítt orð, að ég fæ mig ekki með neinu móti til að taka það í munn. Svo er það líka alt eins torskilið og latínan, því hana skilja margir, en þetta enginn. Ég bíð því rólegur eftir einhverju betra.

skóf upp grjótið eins og lausamjöll;
fjallið sprakk með hvell sem niður hryndi
heimsins mikla' og trausta festing öll.

þetta er, þegar frelsarinn hefur rekið freistarann frá sér. En er ekki þetta of mikil töfrasýning, of líkt austurlenzku ævintýri úr þúsund og einni nótt? Í þessu kvæði eru stjörnurnar látnar verða að englum, er stíga niður til jarðarinnar að veita frelsaranum lotning. — ,,Jesús gengur á vatninu" er gullfallegt. En um kvöldið, þegar hann er einn á bæn uppi á fjallinu (Matt. 14,23), eru ,,tígrar og ormar og óarga dýr og allskonar kvikindi grimm" látin skríða að fótum hans og biðjast griða (140). Tárin hans falla til jarðar, svo ,,klöppin, sem hörð var og köld eins og svell, í kyrrþey á svipstundu grær" og fagur blómlundur rennur þar alt í einu upp í björgunum (143). þessi ævintýrablær skyggir á persónu frelsarans og styrkir ekki trú hinna efunargjörnu á frásögu nýja testamentisins. þetta kvæði virðist mér of langt, eins og annars er hægt að segja um æði-mörg af kvæðunum í síðara bindinu. — þá er ,,Ummyndunin" (156).*) Guð sendir lind(!) til að sækja Jesúm upp á fjallið. þegar þangað kemur, fer frelsarinn að biðjast fyrir, en lærisveinarnir þrír, sem með honum voru, látnir hvíla sig upp við steina og vera milli svefns og vöku. þá kemur Móses þeysandi á kófsveittum fáki í loftinu sunnan frá Nebós fjalli með steinspjöld í hendi og sverð við hlið (160). Elías kemur akandi á eldkerru vestan frá Karmelstindi og er í eldskikkju með kefli í annarri

*) Um þetta kvæði hefur verið talað í ,,Sam." af síra Jóni Bjarnasyni alveg frá sama sjónarmiði. En samhengisins vegna læt ég þess einnig getið hér með sem fæstum orðum.

hendi, en metaskálar í hinni. ,,Felmtrað skalf sem fis í vindi fjallið alt frá neðstu rót" (161). Svo eiga þeir þrír tal saman ,,um dauðans, lífsins leyndardóma, lögmál guðs og frelsarann" (162). Móses tekur þá við metaskálunum og leggur steinspjöldin á metin; seig þá skálin niður, svo skall í berginu (163). Þá leggur Elías kefli sitt með spádómunum um frelsarann úr gamla testamentinu á metin, og verða skálarnar þá aftur jafn-þungar. En Móses bætir sverðinu — ,,refsisverði drottins dóma"—við sín megin, og verður þá skálin hans aftur þyngri. Tekur þá frelsarinn krosstré úr kyrtilskauti sínu og leggur í skál Elíasar:

**,,Létt varð stál og steinn í móti,**
**strax í loft upp skálin fló;**
**krossinn skall í gráu grjóti,**
**gneistaflug úr bergi sló."**

Verður svo trékrossinn alt í einu að gullkrossi (164). Þetta er alt nokkuð stórkostlegt og ólíkt hinni einföldu frásögu nýja testamentisins, þar sem minstu atvik í lífi frelsarans bera á sér veruleikans stimpil. Skáldið hefur ætlað að auka lotninguna fyrir persónu frelsarans með því að bæta þessum eldgamla heilaspuna, sem fyrir löngu er gleymdur og grafinn og aldrei gjörði kristindóminum nema ilt eitt, inn í frásögu nýja testamentisins. En það var ekki heppilegt og er svo langt frá að ná tilgangi sínum, að þeim mönnum, sem nokkuð er gjarnt til að efa guðspjallasöguna, hlýtur að koma til hugar við lesturinn: Svona ævintýri er þetta nú líklega alt saman. — Þegar systur Lazarusar sitja yfir honum veikum, heyra þær barið að dyrum (178), halda þær, að Jesús sé þar kominn, en það er þá dauðinn. Jesús er þá langt burtu með lærisveinum sínum. Þá er svipur Lazarusar látinn fljúga gegn um salinn, þar

sem þeir sitja, ,,og súgur kaldur þaut í rósatjöldum" (181). Þegar efnið og lengdin er borið saman, er þetta kvæði mikið of langt. — Í grasgarðinum lætur skáldið Pétur fara að segja frelsaranum draum og Jesúm fara að ráða hann (269). Og þegar hann kemur til lærisveinanna í 2. og 3. sinn, gjöra þeir Jakob og Jóhannes hið sama. Að hugsa sér, að annað eins og þetta hafi átt sér stað grasgarðspínu-nóttina, er víst mjög mikil fjarstæða frá sálarfræðislegu sjónarmiði. Þegar frelsarinn hefur beðist fyrir í 3. sinni, grætur hann, hvert tár verður perla, en hver perla verður að stjörnu, heilum heimi. Þetta langa kvæði finst mér hafi mishepnast hjá höfundinum.

En mönnum er nú líklega mál á, að ég fari að tína í hina metaskálina, enda er það bæði ljúfara og léttara. Ég er að eins hræddur um, að ég yrði aldrei búinn, ef ég ætti að telja alt það upp, sem kvæðin hafa til síns ágætis. Það sem að þeim má finna, er eins og fis á móti hinu. Í heild sinni eru þau snildarverk, þótt þau hafi sín takmörk. Stundum tekur skáldið viðburði úr gamla testamentinu og líkir þeim við það, sem hann er þá að segja frá, svo það er unun að þeim samanburði, eins og t. d. í kvæðinu um vitringana frá austurlöndum, þar sem hann líkir þeim við kappa Davíðs, sem með skelfilegri lífshættu sóttu vatn í brunninn í Betlehem (28). — Skáldið lætur Önnu spákonu segja:

,,Þegar hjartans benjar svíða' og blæða,
beztu lækning er að fá við því:
Blóðið Jesú instu hjartans æða
öll mun djúpu hjartasárin græða.
Lífsteinn góður sverða' er eggjum í" (86—87).

Það er eins og Hallgrímur Pétursson væri að tala. Annað mál er, hvort það er nú eðlilegt að láta Önnu

segja þetta. — ,,Brúðkaupið í Kana" er létt og ljómandi kvæði, en ekki laust við að vera nokkuð alvörulaust og veraldlegt (66). — Eitt kvæðið heitir ,,Sjúklingarnir" (96). Þar kallar skáldið á alla sjúklingana, sem frelsarinn gaf líf og heilsu, að nú skuli þeir koma fram fyrir hann og tjá honum þakklæti sitt. Snildarkvæði, — og tekur mörgum öðrum fram að því leyti, að hvert vísuorð er svo efnisríkt. — Þá er næsta kvæðið: ,,Líkfylgdin í Nain" (101) yndislegt. Það byrjar svona:

> Dagur er í djúpið siginn,
> djúpið kalda;
> eins og sveinn á helbeð hniginn
> hann er stiginn
> svalt í djúp;
> svipuð dökkum dauðahjúp
> breidd er yfir bládimm alda.
> Jörðin eins og ekkja grætur
> einkason, er tregar sinn.
> Eins og titra tár á kinn
> alt hún döggum laugað lætur.
> Eins og líkfylgd dökk og döpur,
> dimm og nöpur
> skuggar yfir foldu fríðal
> fölvir líða.
> Eins og sorgar óp og vein
> ómar næturvindar kvein."

Þetta er skínandi náttúrulýsing og ,,klassiskur" skáldskapur að mínu viti. Annars er of mikið af náttúrulýsingum í kvæðunum. Þær þreyta lesandann bæði vegna þess, hve langar þær eru, og hins, að þær eru hver annarri svo líkar. Eitt kvæðið, ,,Himnaförin" (328), sem nær yfir 8 bls., er svo sem ekkert annað en náttúrulýsing, en hún heillar naumast hugann eins og þessi. Þar lætur skáldið náttúruna ummyndast fyrir augum sér, svo hún verður að kirkju, og sýnir oss ljósa-

hjálminn, altarið, altarisklæði og altarisdúk, ljósastjakana og altaristöfluna (331). En maður verður að beita ímyndunarafl sitt of miklu valdi til að fylgja höf., og það dregur ofur lítið úr áhrifum þessarar ljómandi lýsingar. Í „Skilnaðarræðunni" lætur skáldið Jesúm benda lærisveinunum upp í alstirndan himininn og segja:

**„Hve mikil borg! Ó, hvílík halla fjöld!**
**Af helgidómi guðs vér skuggann sjáum.**
**Þar á ég heima; heim er mál að snúa,**
**þar hýbýli ég yður fer að búa"** (256).

— „Kanverska konan" held ég sé eitthvert allra fallegasta kvæðið í bókinni. *Það er svo viðkvæmt, að það ósjálfrátt þrýstir tárinu fram í augað.* Ég vildi óska, að það hefði mátt segja þetta um öll kvæðin. Ég hefði viljað láta þau koma meira við hjartað, þessi skínandi ljóð. Mér er ekki nóg að koma inn í spegilfagra marmarahöll, sem upplýst er með rafurmagnsljósi. Mér þarf að verða heitt um hjartað þar inni við faðmlög nýrra hugsana, ef mér á að líða þar reglulega vel. — Þá er „Hvítasunnudagsmorgun" eitt af stærstu kvæðunum, ef til vill mikilfenglegast þeirra allra, á smellandi hexametrum. Þar særir skáldið þjóð sína, sem á svo „tignarlegt tungumál" (347), að láta það verða andans verkfæri og „túlka stórmerki guðs" (348). En svo er eins og maður detti niður úr skýjunum og ofan á láglendið, þegar maður les næsta kvæðið „Hinn fyrsti söfnuður". Mér er eigi unt að sjá, að það kvæði hafi eiginlega nokkurt skáldlegt gildi; það nýtur að eins góðra nágranna. „Presturinn, Levítinn og Samverjinn" held ég sé algjörlega mislukkað kvæði (187), og er þó sú saga hið inndælasta yrkisefni, er hugsast má, en hún hefur hjá höfundinum óvart orðið tómt rím, en ekki skáldskapur, og er ef til vill óheppilegum bragarhætti um að kenna. En öllum eru mislagðar hendur, enda dottar Hómer sjálfur stundum, og ekki við því að búast, að andi skáldsins þreyti flugið ætíð jafn-hátt, þegar um svo langt ferða-

lag er að ræða. — „Kvöldmáltíðin“ er viðkvæmt kvæði (252).

„Ó, sú fegurð guðs í geim!
Mér er, guð minn, glatt í hjarta,
gleðisalinn lít ég bjarta;
langar mig í ljósið heim.
Hjartanlega lysti þig,
lífsins herra, menn að gleðja;
síðast heiminn eins að kveðja
hjartanlega langar mig“ (254).

Aftur Hallgríms Péturssonar tungutak,—látlaust, einfalt, óbrotið. Það á líka ekkert annað við, þegar maður stendur frammi fyrir guði. — Margt er viturlega sagt, til dæmis þetta:

„Skilningsins dugir ein ei eik,
hver einasta grein er þar svo veik“ (229).

„Og lífið hlýtur að sýnast svart,
ef sjá menn ei Jesú auglit bjart“ (228).

— Kvæðið „Sakkeus“, sem þetta stendur í, sýnir, hve mikið skáldið fær stundum út úr frásögninni; hið sama er að segja um kvæðið „Naðran“ (404) og ýms önnur. Þá er þetta vel sagt:

„Þeir hlógu þá, þeir hlæja enn,
sem herrans efa mátt;
en hlátur sá mun hverfa senn,
þótt hlæi þeir nú dátt“ (126).

Skáldinu tekst oftast bezt, þegar hann ber sem minst í ljóðin, en hugsar og talar sem mest blátt áfram. Of mikill íburður spillir oft fyrir. „Heimslok“, þar sem braglistin er í algleymingi sínum, minnir of mjög á „Skarphéðin í brennunni“. Það kvæði er of „blossandi, brunandi, brakandi, sprakandi“ (245). „Fjallræðan“ er eitt af löngu kvæðunum, og er þar reynt að flétta þessa löngu ræðu Jesú í ljóð. En það er ofætlun; kraftur orðanna tapast. Eina af hinum mikilfenglegustu persónum nýja testamentisins virðist mér skáldið hafa misskilið, Jóhannes skírara. Í

myrkvastofunni er hann látinn vera að tala við sjálfan sig. Hann kvartar sárt yfir að sitja þar og fá ekki að njóta sólarinnar, né ganga um „grösuga rósavanga" (106), né „teyga lofthafið létt og svalt", né „heyra fagran fuglasöng" (107). Og svo er rödd látin flytja honum svar frelsarans, ómandi utan að inn í hjarta hans milli hugleiðinganna, og er það atriði mjög fagurt. En skyldi Jóhannes hafa verið að hugsa um þetta í fangelsinu? Var hann svo mikill nautnarinnar maður, að það tæki mest á hann að fá ekki að njóta unaðsemda lífsins? Voru það ekki aðrar og dýpri hugsanir, sem ollu honum hugarangurs? Voru það ekki bylgjur efasemdanna, sem dundu þá yfir hann og krömdu sál hans og komu honum til að hneykslast á guðs lambi, sem bar alls heimsins synd? Það er naumast unt að hugsa sér stórkostlegra yrkisefni en Jóhannes skírara. En hann er víst ekki síra Valdimars meðfæri. Sú hlið sálarlífsins er honum augsýnilega ókunn, og þess vegna er hann ekki tilfinningaskáld. Megum vér ekki um það fást; engum er alt gefið.

Ýmislegt mætti setja út á fyrir skáldinu frá trúfræðislegu sjónarmiði. Trú síra Valdimars er nokkuð mikil alsælutrú *(universalismus)*. Hann er svo bjartsýnn, að hann er að reyna að gleyma því, að til sé nokkurt myrkur. Kemur það af því, að hann hugsar of lítið um hlutina eins og þeir eru, en of mikið um þá eins og ákjósanlegast væri að hafa þá. Í kvæðinu „Guðs ríki" spyr hann:

„Hvort dregur hann þá ei að landi seinna?" (115).

Í „Filippus og svertinginn" segir hann:

„Koma tíð mun sú um síðir:
svartir verða jafnir hvítum,
heiðnir kristnir, viltir vísir,
vondir hljóta náð úr býtum" (866).

Í biblíunni er oss hvergi heitið þessari tíð, og ljóðin þessi hætta að vera biblíuljóð, þegar farið er út í þá sálma. Lakast finst mér kvæðið „Kornelíus" vera að þessu leyti. Því þar eru takmörkin á milli þess að

vera heiðinn maður og kristinn of mjög rifin niður. Það er þeim mun lakara, sem það styður þá stefnu, er nútíðarkristindómi þjóðar vorrar er lang-mest hætta búin af. Í kvæðinu „Grikklands goð" er kenning sú, sem Páll postuli er látinn flytja, of skyld því, sem alment er kallað algyðistrú *(pantheismus)*, enda er því slept, sem einkennilegast var í ræðu postulans, hneykslinu, sem kom stóisku spekingunum til að gjöra gys að öllum þeim boðskap. Miður heppilegt er það líka, að skáldið kallar Krist „Baldur" (301 og 306) og djöfulinn „Loka" (298).

Nú hef ég talað svo margt, að ekki dugir við að bæta. Hjartað verður sífult af þakklæti til skáldsins, sem ég mundi alt af eiga eftir fram að bera, hve lengi sem ég talaði, og svo af ýmsum hugsunum út af öllu hinu snildarlega ljóðasmíði hans, sem auðvitað er eins og önnur mannaverk í því, að eitthvað má út á það setja. Það á ekki heima um skáldskap síra Valdimars, að hann sé stefnulaus eða haldi ekki ákveðinni lífsskoðun fram, enda er þýðing hans sem skálds eflaust lang-mest innifalin í því. Kristindómurinn er hið eina yrkisefni hans. Hvötin ávalt sú, að syngja þá lífsskoðun inn í hjörtun. Og þó hægt sé að segja, að hann hafi vikið ofur lítið út frá henni í einu atriði, þá hefur hann gjört það svo varlega og frekjulaust, að kærleikur hans til frelsarans og kirkjunnar hylur það fyrir augum vorum. Þýðing lífsstarfs síra Valdimars er að þessu leyti stór-mikil og ómræðilegt fagnaðarefni. Þegar mentuðu mennirnir í veraldlegum stöðum hafa lang-flestir snúið bakinu við trúnni og fylla hóp afneitunarinnar, að sárfáum undan teknum, er það sérstök handleiðsla drottins, að vér skyldum eignast þetta trúarskáld á þessum neyðartíma hinnar íslenzku kirkju. Í því felst óefað fyrirheiti um betri tíma. Ef vér allir, sem trúum á frelsarann í hjörtum vorum, verðum eins vel þeim hæfileikum, sem vér höfum þegið, til að koma kristindóminum inn í hjarta þjóðar vorrar og síra Valdimar, þótt þeir séu minni og fátæk-

legri en hans, mundi drottinn einhverju fá til leiðar komið meðal vor. Ef vér ættum menn á öllum svæðum vors kirkjulega lífs, sem létu eitthvað líkt eftir sig liggja og síra Valdimar í skáldskapnum, ættum vér ekki dauða kirkju og dauðan kristindóm, heldur lifandi og starfandi. Skáldskapur hans ætti að vera herhvöt til vor allra. Hann hefur blásið í lúður drottins og blásið vel. það er ekki honum að kenna, ef herinn ekki vaknar.

Ég vona, að með skáldskap hans byrji nýtt tímabil í sögu þjóðar vorrar; að hún hér eftir hverfi meir til kristilegrar lífsstefnu; að kirkjan íslenzka rísi úr rústum, og hin dýrmætasta arfleifð vor, málið, verði hér eftir betur notað til að túlka stórmerki drottins, eins og hann hefur gjört af svo miklum kærleika og mikilli snild.

þegar Svíar þökkuðu *Nordenskjold* fyrir hina frægu heimskautaför hans, fór aðalhátíðarhaldið fram í landsins frægustu kirkju, og biskupinn var til þess kjörinn að halda ræðuna; áttu þá Svíar von á eins mælskri ræðu og nokkurn tíma hefði af sænsks manns vörum komið. En í stað þess að halda slíka ræðu gekk biskupinn, þegar þar var komið athöfninni, þangað sem Nordenskjold sat í heiðurssæti, rétti honum höndina og sagði með viknandi röddu: „Ég þakka!“ Öllum kom saman um, að þetta hefði verið bezta ræðan, sem hægt hefði verið að halda við það tækifæri.

Ljóð síra Valdimars eru oss Íslendingum miklu meira virði en heimskautaför Nordenskjolds Svíum og eiga margfaldar þakkir skilið. þegar mig nú að síðustu brestur öll orð, rétti ég honum höndina yfir hafið og segi: Ég þakka!

---

*Grettisljóð.* þá er það líka önnur bók, sem ekki er síður eftirtektarverð og álítast má veruleg aukning við hið bezta, sem vér eigum í bókmentum vorum. það eru

„Grettisljóð" eftir síra Matthías Jochumsson, prentuð á Ísafirði með laglegu letri, 204 bls. að stærð. Kvæðin eru 34, auk formála, sem líka er í ljóðum. Skáldið er hér að öllu leyti sjálfu sér líkt. Þessi ljóð eru áframhald af ljóðabók síra Matthíasar með öllum kostum hennar og takmörkunum. Hér er engin afturför sjáanleg. Hið bezta, sem hér er, stendur ekki að neinu leyti á baki hinu bezta, sem hann hefur áður orkt, og er þá mikið sagt. Hafi hann áður verið uppáhalds-skáld þjóðar vorrar, verður hann það engu síður hér eftir, er hann á efri árum sínum, þegar aðrir eru farnir að stirðna upp á fótinn og verða hoknir í herðum, hefur leyst það þrekvirki af hendi að yrkja ljóð út af einni hinni helztu af fornsögum vorum.

Hvað eftir annað hefur það verið barið inn í meðvitund manna, að þetta væri hverjum menskum manni ofætlun. Sögurnar væru það listaverk í sjálfu sér, sem ekki væri unt um að bæta. Allar tilraunir til að mynda ný listaverk út af þeim mundu mishepnast. Sagan mundi skipa æðra sess í huga manns en nokkur ljóð, sem út af henni væri unt að yrkja. En þetta er auðvitað ekkert annað en hugarburður. Vitaskuld, það þarf þeim mun meiri list til að ummynda sögurnar og láta þær fæðast á ný sem frumleg listaverk sem betur er frá þeim gengið af frumhöfundum þeirra. En ég sannfærist einlægt betur og betur um, að vér Íslendingar erum og verðum ættlerar feðra vorra í bókmentalegu tilliti og hinar nýju bókmentir vorar verða þýðingarlausar í samanburði við þær gömlu, ef oss er það um megn að láta sögurnar frá hinni glæsilegu fornöld vorri endurfæðast sem listaverk í nútíðarbúningi. Vér erum þá engin bókmentaþjóð og sönnum þá sögu þeirra manna, er ekki vilja kannast við neinar íslenzkar bókmentir nema þær gömlu. Í fornsögum vorum eigum vér dýrmætan bókmentalegan arf frá feðrum vorum, sem gjört hefur garð vorn frægan um heim allan. En ef vér ávöxtum ekki arfinn, smá-deyr hann og visnar upp í höndum vorum. Það er ekki unt

að halda fornsögudýrkuninni við öld fram af öld eins og vér höfum gjört. Það er ekki til neins að neita því, að hugur íslenzkrar alþýðu er farinn að hverfa frá fornsögulestrinum; hún er orðin þreytt á honum. Það er slæmt að svo skuli vera, en naumast unt við því að gjöra, hvað fegnir sem menn vildu. Það kemur sú tíð, að þetta verður enn þá meira en orðið er. Alþýða manna fær sig ekki til að lifa með allan hugann í fornöldinni, þegar til lengdar lætur. Hugsjónirnar og lífið, sem vér höfum fram undan oss og heitt er af eigin hjartaslögum vorum, fer að laða huga fólks vors meira og meira að sér, og það er ekki sorgar-, heldur fagnaðar-efni. Ef andlegt líf á að haldast við meðal vor, þurfum vér að eiga skáld og rithöfunda, er gefi þjóð vorri ný listaverk, er hún geti lifað í með huga sinn og látið anda sinn nærast af. En svo framarlega sem skáldskapur vor á að verða eitthvað annað en léleg eftirstæling af útlendum skáldskap, verður hann að fæðast í skauti fornaldarinnar. Vér verðum að gjöra fornöld að nútíð, láta fornaldarhetjurnar fæðast á ný, ganga út og inn á meðal vor, hvetja oss til þess, sem gott er og göfugt, og um fram alt kenna oss að verja lífi voru eins og vakandi menn. Vér verðum að eignast ljóð út af fornsögum vorum, er komið geti í stað þeirra sjálfra í meðvitund þjóðar vorrar, þar sem gimsteinar fornaldarinnar eru geymdir og greyptir í gull, nýja gullumgjörð, — svo allir dáist að fiðrildinu, sem skriðið hefur úr hýðinu. Annars deyr hin fornhelga bókmenta-arfleifð vor smámsaman í höndum vorum.

Ég vil í þessu sambandi benda á dæmi, sem allir þekkja, og enginn betur en síra Matthías. Það er meðferð Esajasar Tegnér á Friðþjófssögu. Það er nú töluvert farið að fyrnast yfir skáldskap Tegnérs. En Friðþjófssaga hans er eitt af hinum ódauðlegu listaverkum, hvað sem annars má um hana segja. Það er margfalt meiri nautn fyrir anda hvers manns að lesa það skáldverk heldur en söguna sjálfa. Auðvitað mætti yrkja eins vel og betur út af öllum fornsögum vorum,

Til þess ættu Íslendingar að vera allra manna hæfastir, því enginn skilur fornöldina eins og þeir. Svo framlega sem íslenzkar bókmentir eiga nokkurn þroska fyrir höndum, verður þetta gjört með tímanum. Mig skyldi ekkert furða, þótt íslenzk skáld ættu eftir að draga athygli alls heimsins að sér, verða heimsfrægir menn, þegar þeir eru búnir að losa sig við þá hjátrúar-kreddu, að það sé hverjum manni ofætlun að yrkja út af sögum vorum.

Þess vegna kann ég síra Matthíasi margfalda þökk fyrir þessi Grettisljóð. Hann hefur gjört sitt til að sýna, að þótt það sé vandaverk, sem hann hefur færst í fang, er það engu síður vinnandi verk. Með því hef ég ekki sagt, að honum hafi tekist að lyfta Grettistaki sínu til fulls. Hann hefur naumast komið því nema á hálfa leið. En það, að hann hefur komið því helming leiðarinnar, er óræk sönnun þess, að ekki þarf nema herzlumuninn til að koma því alla leið. Hann hefur ekki komist eins langt og Tegnér. Mig furðar á, að síra Matthías, sem varði æskukröftum sínum til að þýða Friðþjófssögu og tókst það svo snildarlega, skyldi ekki betur hafa hugfest, hvað það var, sem lét Tegnér hepnast svo vel. Ljóð hans komu algjörlega í stað sögunnar; hún varð öllum þorra manna óþörf eftir að sænska skáldið hafði snúið henni í ljóð, hve mikil sem vanþekking höfundarins kann að hafa verið á fornöldinni. Hér var sagan öll, söguþráðurinn óslitinn, en efninu öllu og mönnunum lyft upp eins og steini, sem legið hefur niðri í gili og borinn er upp á háan hól. Þetta verður nú ekki um Grettisljóð sagt. Söguþráðurinn er of slitróttur og bláþræðir á honum of víða. Hugurinn hverfur frá ljóðunum og til sögunnar; maður þarf að sækja hana upp á hillu og fara að lesa upp, til að vita, hvernig þetta var alt saman, ef maður á að geta notið ljóðanna. Steininum hefur ekki verið lyft nógu hátt, hann hefur ekki komist nema hálfa leið.

Grettir síra Matthíasar er ekki meiri maður né fegri hetja en Grettir sögunnar. Hann hefur verið

of þungur fyrir skáldið. Vér skiljum ekkert betur hin huldu rök fyrir hörmum hans og óláni. Skáldið hefur reynt að lyfta honum hærra með því að gjöra hann að einskonar fulltrúa kristindómsins og láta lífsskoðun heiðninnar og kristinnar trúar togast á um hjarta hans, spyrna eðli hans sundur og gjöra hann að þeim ólánsmanni, sem hann var. Hugmyndin er fögur og skáldleg. En þetta hefur ekki tekist. Skáldið segir að eins, að svona hafi það verið, en sýnir það ekki. En það þarf meira til þess að vér trúum. Það hefði þurft sálarfræðislega að sýna þessa baráttu, en það hefur höfundinum láðst að gjöra. Auðvitað gefur sagan ekkert tilefni til þessarar skýringar. En hún er jafnmikilfenglegt yrkisefni fyrir því og hefði mátt verða brú milli fornaldar og nútíðar. Til þess að það hefði getað tekist, hefði skáldið orðið að leggjast miklu dýpra en hann hefur gjört. Það kemur sá tíminn, að gjörð verður grein fyrir óláni Grettis í íslenzkum ljóðum, og þau ljóð verða eins og skuggsjá, þar sem margir þekkja sjálfa sig og fá lykilinn að margri harmasögu. Enda væri það ekki of mikið, ef Grettir er sá af hetjum fornaldarinnar, sem nútíðarinnar Íslendingar hafa tekið mestu ástfóstri við, af því þeir finna sig honum líkasta. — Hið sama er að segja um Illuga, bróður Grettis; hann er ekki meiri né göfugri hetja í ljóðunum en í sögunni. En um hann minnir mig að síra Arnljótur Ólafsson segði á þúsund ára hátíð Eyfirðinga 1874, að hann væri hin fegursta hetja og hin göfugasta fyrirmynd hins sanna Íslendings í allri fornaldarsögu vorri.

En Ásdísi, móður þeirra bræðranna, — hana hefur skáldið fundið. Hann hefur teiknað af henni svo ljómandi mynd, að vér gleymum henni aldrei upp frá þessu. Það er ekki til í íslenzkum bókmentum, hvorki í bundnu né óbundnu máli, önnur eins móðir; hinn andlegi þróttur hennar er engu minni en hinn líkamlegi þróttur Grettis. Hún á kærleika, sem aldrei bilar, — trú, sem biður fyrir týndum syni meðan tungan

hrærist. Ef síra Matthías hefði gjört öllum, sem hann nefnir til sögunnar, á sinn hátt sömu skil, mundu þessi Grettisljóð hafa orðið eins ódauðleg og skáldskapur *Shakespeare's*. En við minna má nú una. Ef það er satt, sem vel hefur verið sagt, að þegar skáldi takist að skapa framúrskarandi persónu, hvort heldur í sögu eða ljóði, sé það eins þýðingarmikið fyrir mannlífið og þó þessi framúrskarandi persóna hefði í raun og veru fæðst og lifað og starfað í heiminum, þá vona ég, að sú mynd, sem síra Matthías hefur þarna teiknað af kristinni móður, beri margfaldan ávöxt fyrir íslenzkt þjóðlíf. Íslenzkar mæður þurfa að læra að biðja fyrir sonum sínum, þangað til hver auðnulaus Grettir verður að giftumanni.

Margt er ljómandi fallegt í ljóðum þessum, þó vandvirknin hafi hvergi nærri verið nóg. Því miður má ég ekki benda á hið einstaka. Ljóðagjörð síra M. er hér víða upp á sitt hið allra bezta. Margar ferskeyttu vísurnar hans eru perlur. En samt hefur hann fremur skemt fyrir sér með því að yrkja of mjög undir rímnaháttum með lyklum og jafnvel hortittum rímnaskáldanna. Rímnaöldin er liðin undir lok. Það reisir hana enginn við aftur. Og það er fremur hlægilegt að gjöra sér rellu út af því. Hún hefði komið íslenzkum skáldskap fyrir kattarnef, ef hún hefði fengið að halda áfram. Rímnahættirnir eru óhæfir fyrir hetjuljóð. Grettisljóð sýna það. Þau kvæðin, sem orkt eru undir öðrum háttum, eru öll efnismeiri, veglegri, — meira höfðingsmót að þeim. Síðasta kvæðið er á hexametrum og er eitthvert bezta kvæðið. Hafa þeir síra M. og síra V. enn þá sýnt það, sem Jónas Hallgrímsson var búinn að sanna, að ekki er annað en hjátrú og kredda að halda því fram, að þessi fornhelgi og klassiski bragarháttur sé anda tungu vorrar svo gagnstæður, að ekki sé unt að yrkja undir honum á íslenzku, nema með því móti að beita málið ofríki. Kvæðin „Ísland farsælda-frón!“ „Hvítasunnumorgun“ og „Að Lögbergi“ verða eflaust talin með beztu

kvæðunum, sem til eru á íslenzku, og eru þau þó öll með þessum hætti.

---

Einar Benediktsson: *Sögur og kvæði.*

Af hinum yngstu skáldum vorum er Einar Benediktsson óefað mestur hæfileika-maður. Í öllu, sem hann ritar, koma miklar gáfur í ljós. En sumir vakrir hestar eiga bágt með að ná sér niðri á vekurðinni, læra jafnvel aldrei hreinan gang. Eitthvað líkt þessu á sér stað með Einar Benediktsson. Hann hefur eiginlega ekki náð sér niðri með gáfur sínar enn, hvað sem verður. Það eru heilmikil umbrot inni fyrir hjá honum, en margt af því, sem hann hefur til brunns að bera, er svo óljóst, að enginn skilur. Kom það stöðugt í ljós meðan hann var ritstj. blaðsins „Dagskrár". En það kemur líka fram í bók þeirri, sem hann hefur nú gefið út og kallar „Sögur og kvæði". Hún er 191 bls. á stærð og hefur meðferðis 4 sögur og 27 kvæði. Fyrsta sagan nefnist „Svikagreifinn". Höfundurinn byrjar með því að segja lesendum sínum mjög hátíðlega, að þetta sé sönn saga, „er skeð hafi fyrir allmörgum árum í héraði einu á Íslandi", og á nöfnunum að eins að vera breytt. Hvort sem nú sagan er sönn eða ekki, þá er mjög langt frá því, að hún sé líkleg. Það virðist líka sem höfundurinn hafi haft einhverja óljósa hugmynd um, að hún mundi ekki þykja sem allra sennilegust, en til þess nú að bæta ofur lítið úr skák, hafi hann farið að gjöra þessa yfirlýsing í byrjuninni. En það eru fremur barnaleg örþrifsráð frá skáldlegu sjónarmiði. Það var annars óheppilegt, að þessi saga skyldi vera látin standa fyrst í bókinni, því hún er einna ómerkilegust af öllu, sem þar stendur,—óheppilegt að byrja safn af skáldsögum með því að segja: þið megið ekki kippa ykkur upp við, þó þetta sé fremur lygilegt, það er ekki mér að kenna, það er

alt saman heilagur sannleiki. — Næsta sagan heitir ,,Gullský". Það er víst öllum mönnum hulinn leyndardómur, hvað meint er með þeim samsetningi, nema ef vera skyldi höf. sjálfum. — Þá kemur ,,Valshreiðrið". Það er lang-bezta sagan í bókinni, — fremur lagleg og vel rituð smásaga, svo það væri ánægja að eiga nokkrar aðrar eins eftir höf. Ef alt í bókinni hefði verið jafn-gott, hefði þetta litla safn orðið höf. til sóma, því sögu eins og þá, sem hér er um að ræða, ritar enginn, sem ekki hefur töluverða hæfileika í þá átt. — Síðasta sagan, ,,Farmaðurinn", er ekki nærri því eins góð, en þó betri en hinar tvær fyrstu. Undarlegt má það virðast, að jafn-gallharður föðurlandsvinur og Einar Benediktsson skuli þurfa svo langt úr landi, alla leið til grísku eyjanna, til að finna hæfilegan leikvöll fyrir ímyndunarafl sitt og mannfélagslýsingar. Ólíklegt, að sá, sem ekki hefur ritað skáldsögur nema á fáeinum blaðsíðum, sé búinn að tæma alt, sem um Ísland sjálft má segja. — Kvæðin eru flest gömul og hafa áður birst í blöðum og tímaritum. Bezt eru þau af því, sem í bókinni stendur, og er þó langt frá því, að höf. fylgi þar stranglega öllum þeim listarinnar reglum, sem honum finnast sjálfsagðar fyrir aðra. Það eru sterk tilþrif innan um þessi kvæði, sem bera vott um heilmikið andans atgjörvi. En hinn siðferðislega þrótt sýnist bresta. Hvað sterklega sem höf. kemst að orði, hefur lesandinn aldrei neina tilfinning, að hann tali eins og sá, sem vald hefur, heldur miklu fremur eins og sá, sem út í vindinn slær. Maður hefur eitthvert veður af, að það sé minni veigur í kappanum á bak við orðin en æskilegt væri, og það dregur úr nautninni. Heit föðurlandsást er aðal-einkennið á kvæðum þessum, en hún er blandin svo beisku Dana-hatri, að hún verður fyrir það hálf-ljót á svipinn.

---

Guðmundur Friðjónsson: *Einir.*

Þá kemur Guðmundur *Friðjónsson* fram á sjónarsviðið með nokkrar smásögur, er hann kallar *Einir*, 96 bls. á stærð. Þorsteinn Erlingsson kom með „Þyrna". Bjarni Jónsser á ferðinni með „Baldursbrá". Næst koma líklega einhverjir með skollafingur og maríustakk. — Það er annars mjög einkennilegur maður, þessi Guðmundur Friðjónsson. Hann hefur óneitanlega dálitla rithöfundar hæfileika, en fremur eru þeir á veikum fæti. Því sá andlegi hæfileiki, sem lang-mest ber á hjá honum, er sérvizkan, og hún ætti ætíð helzt að hýrast heima hjá sér; á almannafæri hefur hún ekkert að gjöra. Hið helzta, sem Guðmundi er til afsökunar, er það, að hann hefur um fram marga aðra lag á að komast einkennilega að orði. Enda hefur hann verið að berjast með oddi og egg fyrir þeirri fagurfræðislegu villukenning, að ekkert væri undir því komið, *hvað* rithöfundar og skáld segðu, heldur væri öll listin í því fólgin, *hvernig* þeir kæmu orðum að hugsunum sínum. Með öðrum orðum: Hugsanirnar mega vera svo ljótar, heimskulegar, skaðlegar og ósannar sem vera vill, ef höfundarnir kunna að búa þær í fagran og einkennilegan búning. Ef einhver annar hefði nú komið fram með þessa kenning meðal vor, hefði verið ástæða til að sýna fram á, hvað hún er fráleit. En af því hún í þetta sinn er til vor komin fyrir munn Guðmundar Friðjónssonar, er það óþarfi; allir sáu þegar í stað, hve fáránleg hún er. Af því G. F. getur komist dálítið hnittilega að orði einstöku sinnum, hafa sumir verið að halda uppi á honum höfðinu og gefa í skyn, að hann myndi vera efni í mikinn spámann. Er hann nú orðinn svo upp með sér af því dekri, að stíllinn hans er orðinn alveg óþolandi, svo óeðlilegur og fordildarfullur sem mest má verða. Hann er hættur að segja nokkurn hlut blátt áfram, heldur skrúfar hann setningar sínar svo saman, að þær verða afskræmdar. Kemur þetta fram á hverri blaðsíðu í bók þeirri, sem

hann hefur nú loksins gefið út eftir sig og á að vera meistarastykkið hans. Þegar hann ætlar t. d. að segja frá því, að hann hafi litið við, þykir honum ekki hlýða að viðhafa svo hversdagslegt og óskáldlegt orðatiltæki og segir því: ,,Sjón mín hafði ekki runnið langt skeið, þegar" [26] o.s.frv. Þegar hann ætlar að lýsa dýrð miðnætursólarinnar, þykir honum bezt við eiga að líkja henni við ,,blóðlifur"[34]. Hann lætur hana ,,teygja gullrauða geislaprjónana" [34] o. s. frv. Hann segir frá því með miklum spekingssvip, hvernig ,,svitadöggin sprakk[!] út úr herðum og andliti" og hvernig ,,hjartað í honum lamdist með sprikli og sporðaköstum[!] út í bringspelina" [54]. Það hlýtur að vera meir en lítið einkennilegt hjartað í þessu skáldi, því helzt lítur út fyrir, að á því sé ekki einungis einn sporður eins og á hverjum vanalegum fiski, heldur margir. Eru þetta nóg dæmi til að sýna, hve fráleitur og fáránlegur stíll höfundarins er. Það er verið að hæla þessu sem rammíslenzku orðalagi. En það er ljóta vitleysan. Það orðfærið er íslenzkast, sem látlausast er og mest blátt áfram. Svo er alt það ritað, sem bezt er til á íslenzku, bæði að fornu og nýju. En þetta orðfæri er samtvinnað af sérvizku, tilgerð og fordild, og er hvert um sig jafn-óhafandi.

---

Bjarni Jónsson frá Vogi: *Baldursbrá.*

Bjarni Jónsson frá Vogi er býsna afkastamikill rithöfudnur, eftir því sem vér eigum að venjast. Áður hefur birst á prenti eftir hann: ,,Dauðastundin", frumorkt kvæði, ,,Björn og Guðrún", skáldsaga, og ,,Brúðkaupslagið", þýdd saga eftir *Björnson;* nú síðast *Nadeschda*, þýtt kvæði eftir sænska skáldið *Runeberg*, og *Baldursbrá*, safn af ljóðmælum eftir sjálfan hann, laglega prentað með nokkrum myndum. Eru ekki færri en þrír kostnaðarmenn að bókum hans: Sigfús Eymundsson, Sigurður

Kristjánsson og sjálfur hann. þegar Baldursbrá fékk að sjá ljós þessa heims, er höf. kominn í sjálfsmensku. það er gott að vera duglegur í hverju, sem maður tekur fyrir, einkum ef maður er fyrirtækinu vaxinn. Hitt er kallað að vinna fyrir gýg, ef einhver ver lífi og kröftum til þess, sem hann ekki er maður til. Íslenzkar bókmentir eru lang-auðugastar af smákvæðum, ýmislegum ljóðmælum. það er hin eina tegund bókmentanna, er vér höfum náð nokkrum verulegum þroska í, svo vér þolum samanburð við stærri þjóðir. Mentaður Íslendingur ætti því aldrei að láta sér til hugar koma, að gefa út safn af ljóðum eftir sig, nema því að eins, að þau ljóð hefðu eitthvert verulegt gildi. Vér eigum vissulega nóg af hagyrðingum; annar hver Íslendingur fæst meira og minna við að yrkja. það er orðinn einskonar þjóðarlöstur að þykjast vera skáld. Hjá þjóð, sem ekki er meira en 70 þúsund manns, geta ekki verið mörg skáld; þau hvorki eiga né mega vera mörg. það er óræktarmerki þar sem alt er löðrandi af fíflum og sóleyjum í túninu. Og það er andlegt óræktarmerki hjá oss, að svo margir þykjast vera skáld. Ef andlegur þroski kemst nokkurn tíma á hærra stig hjá oss, breytist þetta. það er andlegu þroskaleysi að kenna, að eldinum er ekki gefinn að leikfangi allur hávaðinn af þeim kvæða-urmul, sem verið er að prenta. Ég hefi oft óskað, að vér Íslendingar værum eins auðugir af öllu og skáldum. Ef vér ættum eins mikið af þeim hæfileikum, sem stefna í framkvæmdar- og fyrirtækis-áttina, væri vel yfir að láta. Vér kæmum þá fleira til leiðar en vér gjörum. — Ég get ekki að því gjört, fæ mig heldur ekki til að hræsna, mér finst þetta skáld, sem orkt hefur Baldursbrá, muni vera fremur lítið skáld. Bjarni og Guðrún var ekki annað en barnaleg eftirstæling, sem furða var að mentuðum manni skyldi hugkvæmast að láta koma fyrir almennings sjónir. Baldursbrá er undur veigalaus skáldskapur, sem lítil eign er í. Bækur höfundarins eru meinlausar, þær af þeim, sem ég hef séð, en

neistann vantar, og af því ætti hann, háskólagenginn, að hafa veður. Þar sem mentunin er annars vegar, verða kröfurnar ósjálfrátt hærri.

---

*Vísnakver Páls Vídalíns.*

Dr. Jón Þorkelsson yngri hefur séð um prentun á Vísnakveri Páls Vídalíns, en Sigurður Kristjánsson gefið út á kostnað sinn. Er ólíklegt, að sú útgáfa verði mikið gróðabragð, því fremur fáir munu kæra sig um að kaupa þessa bók, sem er bæði stór og dýr, nema fáeinir fræðimenn. Á undan vísunum er löng ritgjörð eftir Grunnavíkur-Jón ,,um þá lærðu Vídalína" á meir en 100 blaðsíðum, og er hún að mörgu leyti býsna fróðleg. Þessi skáldskapur eftir Pál Vídalín, sem uppi var 1667—1727, er nú fremur lélegur og hefur enga aðra þýðing en þá, að sýna oss aldarháttinn, veita oss ljósari þekking á einum helzta manninum, sem þá var uppi, og gefa oss hugmynd um það andans líf, sem þá átti sér stað á Íslandi. Það er töluvert á bókinni að græða að þessu leyti. En óhætt hefði verið að prenta ekki nema svo sem helminginn af þessu vísnastagli, en gefa hitt gleymskunni. Vér Íslendingar höfum óskiljanlega tilhneiging til að hrúga saman öllu, sem til er, alveg hugsunarlaust, án þess að láta nokkurn snefil af dómgreind komast að, þegar um svona útgáfur er að ræða. Stórþjóðirnar láta sér ekkert slíkt til hugar koma. Það er til urmull af ómerkilegum skáldskap eftir mörg heimsfræg skáld, sem engum lifandi manni hefur komið til hjartans hugar að gefa út. En vér höfum efni á, að snuðra upp hvern vísuhelming og hvert ógætilegt orð og gefa út á prent og láta almenning kaupa, oft og tíðum til að spilla bæði smekk og siðferði. — Páll Vídalín var sálmaskáld og trúmaður eftir þeirrar tíðar hætti. Má nærri geta, að hið bezta, sem til var í fari hans, kom fram, þegar hann var að yrkja sálma, enda hefur hann

þá augsýnilega vandað sig miklu meir en annars. Enginn sálmur er samt prentaður eftir hann í þessu stóra safni; þótt hinir frumorktu sálmar hans séu glataðir, hefði þó mátt láta þýðingarnar, sem til eru eftir hann, standa hér. Það var sjálfsagt, til að gefa fullkomna og sanna mynd af manninum. En hver ein einasta klámvísa, sem til er eftir hann, er nákvæmlega tilfærð. Er nú hverjum heilvita manni auðsætt, hve öfugt og ranglátt þetta er. Eins og það sé um að gjöra, að sýna það hjá mönnunum, sem lakast er og ljótast, og varðveita það, en stinga hinu undir stól, sem göfugast er og bezt og láta menn gleyma því. Það er nákvæmlega sama aðferðin og höfð var við hina vönduðu útgáfu bókmentafélagsins af kvæðum Stefáns Ólafssonar. Niðurröðun efnisins er óskapleg. Alt er prentað í belg og biðu. Á bls. 112 stendur fyrirsögnin: Bænarvers. Koma þar á eftir heit og hjartnæm bænarljóð. Undir sömu fyrirsögninni, án nokkurrar aðgreiningar, svo augað verður ekki annars vart en það sé enn annað bænarvers, stendur svo mjög ógeðsleg vísa um hvolp (113). Liggur býsna nærri að ætla, að þetta sé gjört af ásettu ráði og sé af sama toga spunnið og hin glánalega neðanmálsgrein á bls. 178—179. — En eins og áður er tekið fram má margt af bókinni læra. Páll Vídalín hefur þýtt á íslenzku hinn fræga sálm eftir hinn heilaga *Bernhard*: „Jesú, þín minning mjög sæt er“. Þórður biskup lét prenta Grallarann 1691 og „bað lögmann, sem þá var skólameistari, að leiðrétta þá gömlu Jesúminning, því sér þætti hún stirð í nokkrum versum. Þetta var á laugardagskvöld.“ Um nóttina sneri hann öllum sálminum, sem er 48 vers, og sýndi biskupinum þá þýðing, þegar þeir komu úr kirkju daginn eftir, og lét biskup þá lesa sér þýðinguna. „Stóð biskupinn þá upp og þakkaði skólameistara með kossi grátandi og sagði, að hún (þýðingin) mundi sungin verða í guðs kirkju þá á landi, þá báðir þeir væru fúnir í moldu“ (178). Þessi þýðing hans var líka sungin af ísl. kirkjulýð hátt á

aðra öld, þangað til síra Stefán Thórarensen þýddi þennan ágæta sálm á ný (30 vers). — Aðrir sálmar, sem til eru í þýðingum eftir Pál Vídalín, eru: Á guð alleina, Gleð þig, guðs sonar brúð, og Sá ljósi dagur liðinn er.

---

Indriði Einarsson: *Hellismenn.*

það er fátt, sem út kemur af leikritum á íslenzku, enda er það engin furða, þar sem vér eigum enn ekkert leikhús, og verður líklega langt þess að bíða. Samt sem áður er furðanlega mikill smekkur fyrir þess háttar skáldskap meðal vor og heilmikill hæfileiki hjá íslenzku alþýðufólki til að leika. Víða á Íslandi og víðast hvar hér í íslenzku bygðarlögunum eru menn á hverjum vetri eitthvað að fást við þess háttar, og er alveg furða, hve myndarlega það tekst oft og tíðum með lélegum föngum. Sýnir það eins og margt annað, hve opið auga þjóð vor hefur fyrir listinni. Leikritið, sem hér er um að ræða, er gamalt, þótt það hafi ekki verið prentað fyrr en nú. það er samið 1871—72 og virðist vera prentað óbreytt frá því, sem það var í fyrstu. Var furða, að höfundurinn skyldi ekki taka sig til og laga það, sem bezt hann mátti, úr því hann fór að láta prenta það á annað borð. Frágangurinn á því er undur óvandvirknislegur, og er það skortur á tilfinning fyrir heiðri og sóma bókmenta vorra að leggja ekki meiri rækt við ritverk sín en hér er gjört. Efnið er ágætt. *Shakespeare* gamla hefði ekki þótt ónýtt að hafa aðra eins þjóðsögu til að yrkja út af.

---

*Bókmenta-félagið.*

Bókmentafélagið hefur enn haldið alveg sömu stefnunni og að undanförnu og ekkert nýtt tekið sér fyrir hendur. Tímaritið hefur verið heldur aðgengilegra hin síðari árin, ritgjörðirnar

fleiri og efnið ekki alveg eins einskorðað og áður. Það horfir samt enn um öxl sér, svo andlitið snýr aftur, og er víst orðið stirðnað í hálstaugunum; er það einkennilega íslenzkt. Ritgjörð Gríms heitins Thomsen um grísku spekingana Platon og Aristóteles er of þung og strembin til þess almenningur hafi hennar not, þótt sami myndarbragurinn sé á henni og öllu eftir þann höfund. ,,Páfinn á vorum dögum" eftir síra Þórhall Bjarnarson er prýðilega samin ritgjörð, en helzt til langt farið út fyrir landsteinana að sækja efnið. — Ritgjörð dr. Björns Ólsen um Sturlungu kemur út sem hefti í ,,Safni til sögu Íslands" og virðist samin af mikilli vandvirkni og skarpleika, en naumast er hún lesandi nema fyrir gallharða fornfræðinga. Langt verður þangað til saga landsins verður rituð, ef fyrst þarf að semja svona stórar bækur út af öllum fornsögum vorum. — Ólafur Davíðsson, sá mikli grúskari, heldur áfram með ,,Þulur og skemtanir", og lítur helzt út fyrir, að þar á ætli enginn endir að verða. Það er áframhald af Þjóðsögunum eins og kunnugt er. Ýmislegur fróðleikur er nú auðvitað í þessu afar stóra safni, enda væri það nú annað hvort, en til að vinza fróðleiksmolana úr þarf maður oft að kafa svo djúpt og leita svo lengi innan um ruslið, að allir hljóta að uppgefast nema þolinmæðin sjálf. Þetta safn er svo sem tíu sinnum of stórt. Maður sér ekki skóginn fyrir trjánum. Ef svo sem tíundi parturinn hefði verið vinzaður úr með smekk og dómgreind og hitt skilið eftir, hefðu miklu meiri not orðið að safninu. Ég skal ábyrgjast, að engin þjóð undir sólinni á hlutfallslega eins smásmuglegan samtíning af líku tagi og þetta. En ekki er laust við, að manni finnist góðum gáfum á glæ kastað, þegar öllu lífinu er varið við annað eins glingur og þetta.

---

*Eimreiðin.* Fjórði árgangur „Eimreiðarinnar“, 3. hefti, er nú allur hingað kominn, og heldur hún áfram að vera skemtilegt og fróðlegt rit í marga staði. En betur finst mér þar þyrfti að kynda undir katlinum, ef Jón landi ætti að finna mikinn mun á ferðalaginu síðan hún kom til sögunnar. Það er eins og enn sé verið að berja fótastokkinn. Nokkurn veginn eina frumsamda ritgjörðin í þessum árgangi, sem nokkuð kveður að, er um „framfærslu og sveitarstjórn á þjóðveldistímanum“ eftir ritstjórann, dr. Valtý Guðmundsson, í tveim fyrstu heftunum. Er hún bæði fróðlega og gætilega rituð eins og hans er von og vísa og ýmislegt á henni að græða. „Nútíðarbókmentir Norðmanna“, þýdd grein eftir Björnson, sem fyrst ritaði hana í tímarit eitt hér í Ameríku, eins og tekið var fram í fyrirlestri um „Hugsjónir“ í 6. árg. *Aldamóta*, er fjörug og skemtileg ritgjörð, en langt frá að vera réttlát. — Í 3. heftinu stendur önnur þýdd ritgjörð um dönsk skáld eftir danskan námsmann ungan, er hefur samið hana eftir tilmælum ritstjórans, og er hún að mörgu leyti góð. Það er eins og íslenzkum námsmönnum í Kaupmannahöfn sé farið að förlast. Á dögum „Verðandi“ hefði þeim víst fundist óþarfi að fara í smiðju til Dana, til að semja slíka ritgjörð. Þeir virðast stunda nám sitt nú af meira kappi en oft að undanförnu, og er það góðra gjalda vert. En það ber lítið á, að andlegum eldingum slái niður hjá þeim nú á þessum tímum, og mun þó lífið býsna fjörugt enn þarna í Aþenuborg hinni nyrðri eins og það á vanda til. — Ritdómarnir í „Eimreiðinni“ hafa verið fremur vandaðir og ýmsir þeirra rækilega og vel af hendi leystir, en þó ekki nærri allra bóka minst, sem út koma. En mjög illa situr það á jafn-stiltum og vönduðum manni og ritstjóranum, að velja mönnum og stéttum háðungarnöfn að orsakalausu, þegar hann minnist á einhverja bók. Þetta hefur hann leyft sér í undurstuttri smágrein um prédikunarfræði síra Helga heitins Hálf-

dánarsonar, þar sem hann segir, að „brennisteinsprestarnir“ hefðu gott af að kynna sér þá bók. Hann hlýtur auðvitað að meina með því uppnefni allan hinn kristna kennilýð, sem heldur fast við kenninguna um eilífa glötun eins og hún kemur fram í nýja testamentinu. Auðvitað gjörði síra Helgi heitinn það eins trúlega og nokkur annar og mundi hafa kunnað þeim manni litla þökk, sem hefði ætlað honum eitthvað annað. En á hinn bóginn er að minni vitund engir til meðal íslenzks kennilýðs á yfirstandandi tíð, sem misbeita þeirri kenning á nokkurn óhæfilegan hátt, svo frá því sjónarmiði er uppnefnið út í höt.. Heiðvirður háskólakennari ætti að álíta sig of góðan til að óhreinka hendur sínar á öðru eins. Hann hefur líka sjálfur fengið of mikið að kenna á þeim íslenzka fólsku-sið, til þess að fara að beita uppnefningum við aðra. Öll þau svívirðilegu uppnefni, sem pólitiskum vindbelgjum hafa getað hugkvæmst, hafa verið látin á honum dynja, síðan hann gjörðist svo djarfur að bera fram skynsamlega tillögu í stjórnarbótarmáli Íslands og ljá henni fylgi sitt. Hann hefur tekið því með þögn og stillingu og vaxið af því í augum góðra manna. En mannúðar-tilfinning sjálfs hans ætti að hafa kent honum, hvílíkur þjóðarósómi þetta er og hve fyrirlitlegt vopn í alvarlegum ágreiningsmálum. Var illa farið, að hann skyldi gjöra sig sekan um slíkt í því sambandi, sem sízt skyldi.

Það er í mannúðarinnar nafni, að þessi mótmæli eru hafin.

---

*Íslendinga-sögur.* Sigurður Kristjánsson í Reykjavík gefur út lang-flestar bækur, sem nú koma út á íslenzku. Flest af bókum, sem hér er talað um, hafa komið út á kostnað hans. Á hann miklar þakkir skilið fyrir ötulleik sinn og dugnað í því að gefa út bækur. Útgáfa hans af Íslendingasögum heldur einlægt áfram. Hann er nú búinn að gefa út 22, Svarfdæla, Valla-

ljótssaga og Vopnfirðingasaga eru seinustu sögurnar, sem til mín hafa komið. Ég vona, að Vestur-Íslendingar finni það skyldu sína að kaupa þessar sögur og lesa þær rækilega. Ein mesta stofu-prýðin, sem ég get hugsað mér, í fallegu húsunum, sem þeir eru nú að byggja hver í kapp við annan, er lagleg bókahilla með vel bundnum íslenzkum bókum; þar ættu þessar Íslendingasögur að skipa öndvegið.

---

**Dr. Jón Þorkelsson: *Supplement til islandske Ordbøger.***

Það er mikið verk og þarft, sem dr. Jón Þorkelsson eldri hefur af hendi leyst, þótt hann sé nú orðinn háaldraður maður. Hann hefur fyrstur manna tekið sér fyrir hendur að semja orðabók yfir nútíðarmál vort, er hann nefnir viðbæti við íslenzkar orðabækur, og er það ekki stærilætislegur titill. Hann hefur um mörg undanfarin ár yfirfarið flestar íslenzkar bækur, er ritaðar hafa verið á þessari öld, til að safna til þessarar orðabókar, enda tilgreina dæmi, eitt eða fleiri, hverju orði, sem sýna, hvar og hvernig það hefur verið notað. Hafa sumir dregið dár að honum fyrir þessa söfnunar-elju og kallað hann *kompilator*. En það er heimskan ein, sem fær sig til annars eins. Hann hefur unnið þjóð vorri þarfara verk en flestir, ef ekki allir, núlifandi íslenzkir fræðingar, enda mun hann flestum mönnum fróðari í öllu, er að máli voru lýtur. Ekki mun nú þetta verk hans vera fullkomið samt, sem ekki er við að búast. Nokkuð mörg íslenzk orð mun hér vanta og það jafnvel úr helztu íslenzku nútíðarritum vorum. En fram úr skarandi vandvirknis- og nákvæmnis-bragur er hér á öllu. Bókmentafélagið ætti nú að taka sig til og gangast fyrir því, að út verði gefin íslenzk orðabók, helzt með íslenzkum skýringum og skilgreiningum. Mundi það með því móti aftur vinna sér til helgis í hugum manna. Til þess mundi því eflaust fúslega veittur styrkur af almannafé, og væri honum vel varið, því hinn dýrmætasti fjársjóður vor er málið, og það er ekki of mikið, þótt vér sýndum því svo mikla rækt að gefa út nokkuð fullkomna orðabók yfir það á 15 til 25 ára fresti. Hún þarf að ná yfir málið alt, bæði að fornu og nýju. Að kljúfa málið svona sundur í nýtt og gamalt er óeðlilegt. Því það er eitt og sama málið frá upphafi vega fram á þennan dag, nema hvað nokkur orð eru orðin

úrelt og önnur ný orð hafa bætst við, eins og á sér stað í öllum lifandi málum. Það væri nær fyrir bókmentafélagið að gefa út eina bók góða en margar ónýtar.

---

*Árni.* Heilmargar þýðingar af útlendum ritum eru nú farnar að koma út á íslenzku. Sumar eru vel valdar og vel gjörðar, en aftur aðrar miður heppilega valdar og ekki sem bezt af hendi leystar. Það er vel til fundið að þýða hinar eldri sögur eftir *Björnson.* Allar sögurnar hans af bændalífinu norska ættu að vera til í íslenzkum þýðingum. Þær eru allar ósvikinn skáldskapur og holl fæða. Ég fæ ekki betur séð en Þorsteinn Gíslason hafi leyst þýðinguna vel af hendi. Kórvilla er það samt æði slæm, að þýða „Hallingdans" með „hallardans" eins og hann gjörir (11). Það á auðvitað að vera „Haddingjadans" — dans, sem tíðkast meðal fólksins í Haddingjadal (Hallingdal) í Noregi, og þess vegna er kendur við það. Kvæðin eru ljómandi vel þýdd að svo miklu leyti, sem ég hefi veitt því eftirtekt, og var það þó ekki vandalaust verk, því það er óvenjulega torvelt að snúa kvæðum Björnsons á hvaða mál sem er. Þorsteinn Gíslason hefur í mínum augum vaxið af þessu og hulið fjölda bókmentalegra synda, því það er auðséð, að hann hefur viljað leysa þýðinguna samvizkusamlega af hendi og ekki hagga neinu. Það er mikið unnið við að eignast þessi kvæði á íslenzku, því við þau eru ljómandi falleg sönglög, sem fræg eru orðin hvervetna, þar sem vel er sungið, auk þess sem kvæðin eru í sjálfu sér sannir gimsteinar.

---

*Bókasafn alþýðu.* Íslenzkur prentari í Kaupmannahöfn, Oddur Björnsson að nafni, hefur tekið sér fyrir hendur að gefa út bækur, sem hann nefnir „Bókasafn alþýðu". „Þyrnar" eftir Þorstein Erlingsson var fyrsta bókin í því safni. Nú eru komnar 8 aðrar. „Sögur frá Síberíu" eftir rússneska skáldið *Vladimir Korolenko* eru þýddar af þremur ísl. námsmönnum í Kaupmannahöfn; hafa þeir þýtt sína söguna hver, en Sigfús Blöndal ritað formálann. Korolenko er talinn gott skáld, en stórlega efast ég um, að sögur þessar falli í smekk íslenzkrar alþýðu. Sögurnar

eru að vissu leyti dágóðar, en þær skiljast fráleitt alment og eru því mjög lítið við alþýðu hæfi. — Betur eru „Sögur herlæknisins" valdar, eftir *Zakarias Topelius*, þýddar af síra Matth. Jochumssyni (115 bls.) Það er alþýðubók og þýðingin fjörug, hversu nákvæm sem hún er. Nú er þýðing hans á „Brandi" eftir *Henrik Ibsen* að koma út í „kjallaranum" á „Íslandi", en þessar „Sögur herlæknisins" koma út í dýrindis útgáfu í Kaupmannahöfn. Ég hefði kunnað betur við að hafa á þessu hausavíxl. Brandur átti skilið að vera almennilega til fara, þegar hann kæmi út til Íslands; það er raunalegt að vita hann, svo góðan klerk og réttvísan, ganga þar í lörfum meðal fólksins. — Þá kemur *Úranía* eftir frakkneska rithöfundinn *Camille Flammarion*, þýdd af Birni Bjarnasyni, 176 bls. á stærð. Það á að vera stjörnufræði og skáldsaga í einu, og getur verið, að mörgum þyki það fróðleg og skemtileg bok, en aldrei hefir mér þótt mikið í hana varið. Þessar tvær síðar nefndu bækur eru með myndum og frágangurinn ljómandi fallegur, að því, er pappír og prentun snertir. En naumast trúi ég því, að tekið verði öðru eins ástfóstri við þær bækur, sem enn eru út komnar í safni þessu eins og þegar „Þúsund og ein nótt", „Pílagrímur ástarinnar", „Úndína" og „Þöglar ástir" komu út í Kaupmannahöfn á kostnað Páls Sveinssonar í þýðingum eftir Stgr. Thorsteinsson. Þær eru hvorki valdar af eins miklu viti né þýddar af eins mikilli snild. Fremur eru bækur þessar dýrar, enda eru þær eins og stáz-meyjar til fara.

---

*Gegn um brim og boða.*

Síra Janus Jónsson hefur tekið sig til og snúið á íslenzku sögu um íslenzkt efni eftir *Karl Andersen*, sem kölluð er: „Gegn um brim og boða. Er hún prentuð á Ísafirði á kostnað Sigurðar Kristjánssonar, 344 bls. á stærð. Karl Andersen hefur nú ætíð verið í tölu hinna minni spámanna sem skáld, og þess vegna engin sérstök ástæða til að fara að þýða sögu þessa. Vér, sem ekki höfum efni á að gefa út nema svo fátt af útlendum bókum í íslenzkum þýðingum, ættum sannarlega að vera vandir að vali og aldrei þýða neitt, nema það, sem ágætast er á bókamarkaði heimsins. Það hefði verið nær að gefa út vandaða þýðing af æfintýrunum eftir danska skáldið H. C. Andersen, sem til eru á öllum túngumálum heimsins, jafnvel kínversku, en ekki eru til á íslenzku nema eitt og eitt hingað og þangað á strjálingi.

*Biblíusögur Tangs.* Það hefur verið töluverður hörgull á biblíusögum hér fyrir vestan um tíma, því biblíusögur Tangs hafa verið uppseldar. Nú hefur síra Jón Helgason aukið þær og endursamið; hefur hann einkum haft þarfir latínuskólans fyrir augum, þar sem hann kennir trúfræði. En hér fyrir vestan hafa biblíusögur Tangs verið notaður við barnakenslu bæði á sunnudagsskólum og við fermingarundirbúning. Heima hafa menn víst langmest notað biblíusögur Balslevs, sem eru þó stuttar og ófullkomnar. Nú eru Tangs biblíusögur orðnar töluvert lengri en áður, og kann sumum að þykja bókin nokkuð stór handa börnum eða unglingum, en hún er þeim mun fullkomnari og veitir ekki af því, ef Íslendingar eiga að verða aftur eins vel að sér í biblíusögum og þeir hljóta að hafa verið á dögum Vídalíns gamla; hika ég mér ekki við að ráða öllum foreldrum til að fá bók þessa handa börnum sínum. Þau ættu að kynna sér biblíusögurnar á undan kverinu. Það er ekki heppileg aðferð að láta þau fara að læra kverið fyrst, en geyma biblíusögurnar seinasta árinu á undan fermingunni. Það er ætíð bezt að byrja með því, sem auðveldast er, og sögurnar úr biblíunni eru miklu auðveldari en kverið; það verður líka miklu skiljanlegra, þegar barnið hefur áður fengið hugmynd um hinar helgu sögur ritningarinnar. Biblíusögur eru undur fljótt lærðar; barnið drekkur þær í sig og gleymir þeim ekki, þegar það er eitt sinn búið að ná í þær. En ekki má fyrir það vanrækja, að láta börnin lesa í biblíunni jafnframt og segja þeim til í henni. Góðar biblíusögur eru handhæg útgáfa af biblíunni handa börnum og unglingnm; þær eru nauðsynlegar yfirlitsins vegna og hinn bezti grundvöllur kenslunnar í kristindóminum. Síra Jón Helgason á því þakkir skilið fyrir að hafa leyst þetta verk samvizkusamlega og vel af hendi. Hann hefur hlotið að verja til þess miklum tíma. Mörgum sögum er bætt við, röðin leiðrétt og skilningnum ýmsar góðar bendingar gefnar. Ritningargreinirnar hafa margar verið þýddar af nýju eða þeir kaflarnir, þar sem orð biblíunnar eru látin halda sér. En vafamál er það, hvort þetta hefur verið heppilegt, nema þar sem það var óhjákvæmilegt. Íslenzka biblíuþýðingin er því miður ekki nákvæm, en að hafa margar þýðingar á sömu ritningargreininni í kenslubókum handa unglingum, ef til vill eina í kverinu, aðra í biblíusögunum og þriðju í ritningunni sjálfri, er vafalaust óheppilegt og því til fyrirstöðu, að ritningargreinin festist í minni. Betra að nota ófullkomna þýðing, sem stendur í bibl-

íunni, en að koma of miklum ruglingi á stað með mörgum þýðingum, þangað til vér eignumst nýja og endurbætta biblíuþýðing.

---

*Vegurinn til Krists.* Nú er trúarflokkur, sem aðventistar nefnist, búinn að senda trúboða norskan til Íslands, er Östlund heitir. Aðalatriðin í kristindóminum, sem þeir halda fram, er helgihald sunnudagsins og koma frelsarans til dómsins í nálægustu framtíð. Bókin, sem hér er um að ræða, talar samt um kristindóminn alment; er ýmislegt gott í henni, og getur lestur hennar orðið til að vekja góðar og guðrækilegar tilfinningar hjá mörgum. Ekki þarf samt glöggur leikmaður að lesa lengi til að finna, að bókin er ólútersk í anda. Þar er ekkert talað um sakramentin framar en þau væru engin til. Enda misskilja aðventistar bæði skírn og kvöldmáltíð. En einna bezt sést það á þeim ótal tilvitnunum í ritninguna, sem þar eru. Ritningargreinum er þar látið rigna niður, stundum hér um bil af handahófi; slitnar úr réttu sambandi, misskildar oft og tíðum og tilfærðar eigi svo sérlega sjaldan án þess þær eigi nokkuð við þann sannleika, sem þá er verið um að ræða. — Það er siður aðventista, að smeygja sér inn með þessari bók eða öðrum henni líkum. Þeir byrja vanalega með því að segjast halda fram nákvæmlega hinum sama kristindómi og það fólk hefur átt að venjast, sem þeir komast inn á meðal; þeirra kristindómur sé að eins heitari og sannari. En svo líður ekki á löngu áður en þeir fara að leggja alla áherzlu á sérkenningar sínar: helgihald laugardagsins, heimsendi þá og þegar væntanlegan, ódauðleika sálarinnar að eins fyrir trúaða, skírnina að eins fyrir fullorðna. Sömu aðferðinni er nú beitt á Íslandi. Þar er nú þegar farið að koma fólki í skilning um, að það sé kristindóminum öldungis gagnstætt að halda helgan sunnudaginn. Laugardagurinn sé sá dagur, sem drottinn skipi öllum sínum lýð að halda helgan fyrr og síðar. Svo koma hin önnur atriði smátt og smátt. En vonandi verður þessum aðventistum ekki sérlega mikið ágengt. Íslendingum er ekki sérlega gjarnt til að láta leiða sig út í trúarlegar öfgar og ofsa. Reyndar hefur Mormóna-trúboðunum tekist að fleka marga, en það mun nú vera af öðrum ástæðum. Síra Jón Helgason hefur mjög rækilega sýnt fram á hið öfuga, óevangeliska og villandi í kristindómsstefnu þeirra.

*Bunyan: För pílagrímsins.*

Þetta er nú nokkuð gömul bók, prentuð á Englandi 1876 í ísl. þýðing eftir Eirík Magnússon á kostnað kristilega smáritafélagsins í Lundúnum. Það er býsna stór bók, 804 blaðsíður auk formála, prýðilega prentuð, laglega bundin, með átta fallegum litmyndum. Bók þessa er nú hægt að fá hér fyrir vestan við afar lágu verði. Síra Jónas A. Sigurðsson gjörði samning við smáritafélagið um sölu á henni hér fyrir vestan fyrir hálfvirði á ferð sinni heim til Íslands í sumar. Ég vil ráða mönnum til að eignast þessa bók handa börnum sínum. Hún er alveg einstök í sinni röð meðal allra bóka. Hún er til á öllum tungumálum heimsins og hefur náð meiri útbreiðslu en nokkur önnur bók, að biblíunni einni undan tekinni. Efnið er andlegt stríð og barátta og sigur kristins manns, framsett í líkingarfullri frásögu; öll bókin er líking frá upphafi til enda. Brennheit trú á frelsarann gengur gegn um hana alla. En þar kemur líka fram ein hin dýpsta syndajátning, sem meðvitundin um brot og yfirtroðslur hefur þrýst út úr hjarta trúaðs manns. Bókin er ef til vill að þessu leyti hið fullkomnasta bergmál af Davíðs sálmum, sem til er í kristilegum bókmentum. Óumræðilega skýr sjón inn í andans heim kemur hvervetna í ljós. Það er einn galli á bókinni, og það er formálinn, er segir frá æfi Bunyans. Höf. þessarar æfisögu hefur ekki skilið Bunyan, sem er einn af hinum merkustu mönnum, sem uppi hafa verið, og dæmir rangt um sumt hið bezta í fari hans, af því hann hefur ekki skilið kristindóminn sjálfan og skort kristilega lífsreynslu. Hann er ritaður í ókirkjulegum anda, og mun þó smáritafélagið ekki hafa ætlast til þess. — Síra Oddur V. Gíslason þýddi bók þessa áður; kom sú þýðing út í Reykjavík 1864—65 og var nefnd „Krossgangan".

